# Nordiske Oldskrifter

udgivne

af

## det nordiske Literatur-Samfund.

---

X.

Bandamanna Saga,

ved *H. Fridriksson.*

KJØBENHAVN.

Trykt i Brødrene Berlings Bogtrykkeri.

1850.

## DET NORDISKE LITERATUR-SAMFUND.

*Det nordiske Literatur-Samfund* har til Formaal at udbrede Kundskab til Nordens ældre Literatur, navnlig ved at udgive nordiske Oldskrifter paa en med Almenhedens Tarv overenstemmende Maade, og ved at udbrede disse i saa vid en Kreds som muligt. Samfundet vil derfor nærmest foranstalte Haandudgaver af de vigtigste islandske og andre oldnordiske Skrifter med en vel bearbejdet Text, og vil ved Siden heraf ogsaa søge at fremkalde lignende Udgaver af de senere Sprogmindesmærker, navnlig af Levningerne fra vor egen Middelalder. Men da Kundskaben til Nordens Oldsprog er saa lidet udbredt, vil Samfundet, i det mindste indtil Tilvejebringelsen af andre fornødne Hjælpemidler gjör det overflodigt, ledsage hine Textudgaver med Oversættelser eller saadanne Oplysninger, som ere nødvendige til fuldstændig at forstaae det udgivne. De af Samfundet besørgede Skrifter skulle indrettes saaledes, at Texterne og Oversættelserne eller Oplysningerne kunne samles i særskilte Bind. Samfundets Love ere:

§ 1. Samfundet har til Formaal, at fremme Kundskab til Nordens ældre Literatur, nærmest ved at udgive og udbrede nordiske Oldskrifter og de til disses Benyttelse fornødne Hjælpemidler.

§ 2. Aarlig afholdes i Kjøbenhavn et Møde, hvorpaa samtlige Medlemmer have Stemmeret.

# BANDAMANNA SAGA,

udgivet

af

**det nordiske Literatur-Samfund,**

ved

H. FRIDRIKSSON.



KIØBENHAVN.

TRYKT I BRØDRENE BERLINGS BOGTRYKKERI

1850.

# Forord.

---

Nærværende lille Saga er vel trykt en Gang för i „Nockrer Margfrooder Sögu-Þætter Islendinga, Holum 1756," men denne Samling af Sagaer er baade udgivet meget daarlig og nu yderst sjelden. Til Grund for Udgivelsen er lagt Membranen Nr. 132 fol. i den Arnamagnæanske Samling, der hörer til de bedste Membraner, vi have tilbage; denne er derfor nöje fulgt, og det er overalt omtalt i Anmærkningerne, hvorsomhelst der er afveget derfra, eller optaget noget af Papirshaandskrifterne; kun er den Retskrivning overalt brugt, som nu almindeligvis antages ifölge Oprindelse og Udtale for den normale i det trettende og förste Delen af det fjortende Aarhundrede, paa hvilken Tid Membranen sandsynligvis er nedskrevet. Ved Siden af denne ere benyttede Papirshaandskrifterne 140 fol., 1630 fol., 165 L. fol.; 455, 493, 554 *α, β*, og 568 i 4to af den Arna M. Samling og Nr. 4 blandt additamenta Universitatis Havn., som i Anmærkningerne er betegnet 4 add. Med Undtagelse af 140 fol. og 493, synes alle disse at nedstamme mere eller mindre middelbart, om ikke fra Membranen 132, saa dog fra dennes Original; navnlig stemme 1630, 165 L og 568 nærmest med 132. Nr. 4 add. kan med god Grund antages at være det Haandskrift, hvorefter denne Saga er trykt i den för anförte Saga-Samling. 140 og 493, der begge ere afskrevne af Asgeir Jónsson, afvige betydeligt saavel i Fortællingen som i Sproget fra 132 og de övrige Haandskrifter.

Sagaens Begivenheder maa henföres til lidt efter Midten af det 11te Aarhundrede, da Oddr Ufeigsson var samtidig med Harald Haardraade, med hvem han paa en af sine Handelsreiser kom i Uvenskab[1]. En anden af Sagaens Personer, Úspakr, var en Söstersön til Grettir Asmundarson, der omtrent var 28 Aar, da Olaf den hellige 1015 blev Norges Konge. De fleste af Sagaens Personer ere bekjendte fra andre Sagaer; de eneste af Hovedpersonerne, som man ellers intet veed om, ere tre af de saakaldte Bandamenn, Styrmer, Þorarinn spaki Langdœlagoði og Gellir Þorðarson; thi Þorarinn kan umulig være den samme, som omtales i Heiðarvígasaga, da denne alt da var meget gammel i Begyndelsen af det 11te Aarhundrede. Gellir Þorðarson kaldes i 140 og 493 Gellir Þorkelsson frá Helgafelli, hvilket ikke kan være rigtigt, da denne ikke vel kan antages at have havt flere voxne Døttre i Odd Ufeigssons yngre Aar, hvorimod han snarere maa antages for at have været dennes jævnaldrende.

I Anmærkningerne ere fölgende fire Skrivfeil i Membranen forglemte at anföres: mað (3.[1].) for maðr, talr (10.[20].) for talar, mnt (30.[18].) for munut og ga (42.[2].) for ganga.

---

[1]) Fornmanna sögur. VI. 377-384.

[1] Úfeigr hèt maðr, er bjó vestr í Miðfirði, á þeim bœ, er at Reykjum heitir. Hann var Skíðason, en móðir hans hèt Gunnlaug. Móðir hennar var Járngerðr,[2] dóttir Úfeigs Járngerðarsonar, norðan ór Skörðum. Hann var kvæntr maðr, ok hèt Þorgerðr kona hans ok var Valadóttir, ættstór kona ok hinn mesti kvennskörungr. Úfeigr var spekingr mikill ok hinn mesti ráðagörðamaðr. Hann var í öllu mikilmenni, en ekki var hánum fjárhagrinn hœgr. Hann[3] átti lendur miklar, en minna lausafè. Hann sparði við engan mann mat, en þó var mjök á föngum, þat er til búsins þurfti at hafa. Hann var þingmaðr Styrmis frá Ásgeirsá, er þá þótti mestr höfðingi vestr þar. Úfeigr átti son við konu sinni, er Oddr hèt. Hann var vænn maðr ok brátt vel menntr; ekki hafði hann mikla ást af föður[4] sínum; engi var hann verksmíðarmaðr[5]. Vali hèt maðr, er þar óx upp heima hjá[6] Úfeigi. Hann var vænn maðr ok vinsæll. Oddr óx upp heima með föður[4] sínum, þar

1) *Membranen har her som Overskrift:* faga ofeigſ banda kalſ.

2) *163 o og 165 L have:* Ingigerðr.

3) Hann *udelader Membranen, men det er her tilföiet ifölge samtlige de övrige Haandskrifter.*

4) *I Membranen skrevet* feðr.

5) verksmiðr, *165 L.*

6) *Saaledes Membranen og 554 a β; de andre Haandskrifter have* með.

til er hann var tólf vetra gamall. Úfeigr var fálátr löngum við Odd, ok unni hánum lítið. Sá orðrómr lagðist á, at engi maðr þar í sveitum væri betr menntr, en Oddr. Einn tíma kemr Oddr at máli við föður[1] sinn ok beiðir hann fjárframlaga, „ok vil ek fara á brott hèðan. Er á þá leið", sagði hann, „at þú leggr til mín litla sœmd; er ek ok ekki nytsamligr yðru ráði". Úfeigr svarar: „Ekki mun ek minnka tillög við þik, ór því sem þú hefir til unnit; mun ek ok því næst göra, ok muntu þá vita, hvert fullting þèr er at því". Oddr sagði, at lítt mátti hann við þat styðjast mega, ok skilja við þat talit. Annan dag eptir tekr Oddr vað af þili ok öll veiðarfœri ok tólf álnar vaðmáls. Hann gengr nú í brott, ok kveðr engan mann. Hann ferr út á Vatnsnes, ok ræðst þar í sveit með vermönnum, þiggr at þeim hagræði þau, sem hann þarf nauðsynligast, at láni ok leigu. Ok er þeir vissu ætt hans góða, en hann[2] var vinsæll sjálfr, þá hætta þeir til þess, at eiga at hánum. Kaupir hann nú allt í skuld, ok er með þeim þau missari í fiskiveri; ok er svá sagt, at þeirra hlutr væri í bezta lagi, er Oddr var í sveit með. Þar var[3] hann þrjá vetr ok þrjú sumur, ok var þá svá komit, at hann hafði þá aptr goldit hverjum þat, er átti, en þó hafði hann aflat sèr góðs kaupeyris. Aldri vitjaði hann föður síns, ok svá láta þeir hvárir, sem engu ætti við aðra at skylda[4]. Oddr var vinsæll við sína fèlaga. Þar kemr, at hann ræðst í

[1]) *I Membranen skrevet* feðr.

[2]) hann *er udelodt i Membranen, men tilföiet overeensstemmende med de övrige Haandskrifter.*

[3]) var *er udeladt i Membranen, men tilföiet som nödvendigt Tillæg ifölge de andre Haandskrifter,*

[4]) *Sooledes Membranen. — 455, 468, 165 L og 4. add.:* og so láta þeir, sem eingenn ætti við annan að skyllda. *163 o:* og so lata þeir, sem hvarrgi ætti við annan at skyldu. 354 *a β*: og so lata þeir, sem hvoruger eigi við aðra að skullda. *140 og 493:* og so lætr þar hvarr, sem ecki eigi scyllt við annan.

flutningar norðr til Stranda með farma, ok kaupir sèr ferju; aflar þá svá fjár. Nú græðir hann brátt fè, þar til er hann á einn ferjuna, ok heldr nú svá milli Miðfjarðar ok Stranda nökkur sumur; tekr hann nú at hafa vel fè. Þar kemr enn, at hánum leiddist sjá athöfn. Nú kaupir hann í skipi[2], ok ferr utan, ok er nú í kaupferðum um hríð, ok tekst enn vel til þessa ok liðmannliga; verðr hánum nú enn gott[2] bæði til fjár ok mannheilla. Þessa iðn hefir hann nú fyrir stafni, þar til er hann á einn knörr ok mestan hluta áhafnar; er nú í kaupferðum, ok görist stórauðigr maðr ok ágætr. Hann var opt með höfðingjum ok tignum mönnum utanlands, ok virðist þar vel, sem hann var. Nú görir hann svá auðgan[3], at hann á tvá knörru í kaupferðum; ok svá er sagt, at engi maðr væri í þann tíma í kaupferðum, sá er jafnauðigr væri sem Oddr. Hann var ok farsælli, en aðrir menn. Aldri kom hann norðarr skipi sínu, en á Eyjafjörð, ok eigi vestarr, en í Hrútafjörð.

[4]Þess er getið eitthvert sumar, at Oddr kemr skipi sínu á Hrútafjörð við Borðeyri, ok ætlar at vera hèr um vetrinn. Þá var hann beðinn af vinum sínum, at staðfestast hèr. Ok eptir bœn þeirra görir hann svá; kaupir land í Miðfirði, þat er á Mel heitir. Hann eflir þar mikinn búnað, ok görist rausnarmaðr í búinu; ok er svá sagt, að eigi þótti um þat minna vert, en um ferðir hans áðr. Ok nú var engi maðr jafnágætr, sem Oddr var, fyrir norðan land. Hann var betri af fè, en flestir menn aðrir; góðr órlausna[5]

---

1) hafskipi *455, 554 a β og 4. add.*

2) enn gott *er udeladt i Membranen, men tilföiet som nödvendigt Tillæg ifölge 4. add.*

3) *Rettelse istedenfor Membranens feilskrevne* augan.

4) *Membranen har her som Overskrift:* oddr kaupir mel.

5) *I Membranen er dette Ord skrevet* vrlausna, *men Præpositionen er dog ellers allevegne skrevet* or.

við þá, er hans þurftu ok[1] í nánd hánum váru, en föður sínum görði hann aldri hagræði. Skip sitt setti hann upp í Hrútafirði. Þat er sagt, at engi maðr væri jafnauðigr hèr á Íslandi, sem Oddr; heldr segja menn hitt, at hann hafi eigi átt[2] minna fè, en þrír þeir, er auðgastir váru. Í öllu lagi var hans fè mikit: gull ok silfr, jarðir ok ganganda fè. Vali, frændi hans, var með hánum, hvárt sem hann var hèr á landi eða utanlands. Oddr sitr nú í búi sínu með slíka sœmd, sem nú er frá sagt. Maðr er nefndr Glúmr. Hann bjó á Skriðnisenni; þat er milli Bitru ok Kollafjarðar. Hann átti þá konu, er Þórdís hèt. Hón var dóttir Ásmundar hærulangs, föður Grettis Ásmundarsonar. Úspakr hèt son þeirra. Hann var mikill maðr vexti ok sterkr, údæll ok uppivöðslumikill. Hann[3] var brátt í flutningum milli Stranda ok norðrsveita. Hann var[4] görviligr maðr, ok görist rammr at afli. Eitt sumar kom hann í Miðfjörð, ok seldi fang sitt. Ok einn dag fèkk hann sèr hest, ok reið upp á Mel, ok hittir Odd. Þeir kvöddust, ok spurðust almæltra tíðenda. Úspakr mælti: „Á þá leið er, Oddr!" sagði hann, „at góð frètt ferr um yðvart ráð; ertu mjök lofaðr af mönnum, ok allir þykkjast þeir vel komnir, er með þèr eru. Nú vænti ek, at mèr muni svá gefast; vilda ek hingat ráðast til þín". Oddr svarar: „Ekki ertu mjök lofaðr af mönnum, ok eigi ertu vinsæll; þykkir þú hafa brögð undir brúnum, svá sem þú ert ættborinn til". Úspakr svarar: „Haf við raun þína, en eigi sögn annarra; því at fátt er betr látið, en efni eru til; beiði ek þik ekki gjafar at; vilda ek hafa hús þín, en

1) *Membranen udelader* ok, *men det er tilföiet som nödvendigt Tillæg ifölge de andre Haandskrifter.*

2) átt *er udeladt i Membranen, men tilföiet ifölge 455 og 4. add.*

3) Hann *udelader Membranen, men det er tilföiet ifölge flere Haandskrifter.*

4) Hann var *er udeladt i Membranen, men tilföiet som nödvendigt Tillæg.*

fœða mik sjálfr; ok sjá þá, hversu þèr gezt at". Oddr svarar: „Miklir eru þèr frændr ok torsóttir, ef yðr bítr við at horfa; en við þat, er þú skorar á mik til viðtöku, þá megu vit á þat hætta vetrlangt". Úspakr tekr þat með þökkum, ferr um haustið á Mel með feng sinn, ok görist brátt hollr Oddi; sýslar vel um búit, ok vinnr sem tveir aðrir. Oddi líkar vel við hann; líða þau missari. Ok er várar, býðr Oddr hánum heima at vera, ok kveðst svá betr þykkja. Hann vill nú ok þat; annast Úspakr um búit, ok ferr þat stórvel fram; þykkir mönnum mikils um vert, hversu þessi maðr gefst. Hann er ok vinsæll sjálfr, ok stendr nú búit með miklum blóma, ok þykkir engis manns ráð virðuligra vera, en Odds. Einn hlut þykkir mönnum at skorta, at eigi sè ráð hans með allri sœmd, at hann er maðr goðorðslauss. Var þat þá mikill siðr, at taka upp ný goðorð, eða kaupa. Ok nú görði hann svá; söfnuðust hánum skjótt þingmenn; váru allir til hans fúsir, ok er nú kyrrt um hríð.

Oddi hugnar vel við Úspak, lèt hann mjök ráða fyrir búinu. Hann var bæði harðvirkr[1] ok mikilvirkr, ok þarfr búinu. Líðr af vetrinn, ok hugnar Oddi nú betr við Úspak en fyrr; því at nú hefst hann at fleira. Á haustum heimtir hann fè af fjalli, ok urðu góðar heimtur; missti engis sauðar. Líðr nú af vetrinn ok várar; lýsir Oddr því, at hann ætlar utan um sumarit, ok segir, at Vali frændi hans skal taka þar við búi. Vali svarar: „Svá er háttað, frændi! at ek em ekki því vanr, ok vil ek heldr annast um fè okkart[2] ok kaupeyri". Oddr snýr nú at Úspaki, ok biðr hann taka við búi. Úspakr svarar: „Þat er mèr ofráð, þó at nú flytist[3] fram, er þú ert við". Oddr leitar eptir, en

1) *140 og 493:* hagvirkr. 2) *I Membrauen feilskrevet* ockað.
3) *455 og 4. add.:* fleytist.

Úspakr ferr undan, ok er þó óðfúsi til; ok þar kemr, at hann biðr Odd ráða, ef hann[1] heitr hánum sinni ásjá ok trausti. Oddr segir, at hann skal svá fara með hans eigu, sem hann verðr[2] mestr maðr af ok vinsælstr; sagðist þat reynt hafa, at eigi mun annarr maðr betr kunna nè vilja hans fè varðveita. Úspakr biðr nú á hans valdi vera; lúka nú svá talinu. Oddr býr nú skip sitt, ok lætr bera vöru til. Þetta frèttist, ok er margtalat um. Oddr þurfti eigi langan búnað. Vali ferr með hánum. Ok þá er hann er albúinn, leiða menn hann til skips. Úspakr leiddi hann í lengra lagi; áttu þeir mart at tala. Ok er skammt var til skips, þá mælti Oddr: „Nú er sá einn hlutr, er úskilat er". „Hvat er þat?" sagði Úspakr. „Ekki er sèt fyrir goðorði mínu", sagði Oddr, „ok vil ek, at þú takir við". „Á þessu er engi gegning", segir Úspakr; „er ek ekki til þess fœrr; hefi ek þó meira á hendr tekizt, en líkligt sè at ek valda eða vel leysa; er þar engi maðr jafnvel til fallinn, sem faðir þinn; er hann hinn mesti málamaðr ok forvitri[3]". Oddr kveðst eigi mundu hánum í hendr fá, „ok vil ek, at þú takir við". Úspakr ferr undan, ok vildi þó feginn. Oddr segir á reiði sína, ef hann tekr eigi við; ok at skilnaði þeirra tekr Úspakr við goðorðinu. Ferr Oddr nú utan, ok tekst vel hans ferð, sem vandi hans var til. Úspakr ferr heim, ok var margtalat um þetta mál; þykkir Oddr mikit vald hafa þessum manni í hendr fengit. Úspakr ríðr til þings um sumarit með flokk manna, ok tekst hánum þat vel ok liðmannliga, kann þat allt vel af höndum at leysa, er hann skylda lög til, ok[4] ríðr af þingi með sœmd.

---

1) hann *udelader Membranen, men det er tilföiet som nödvendigt Tillæg ifölge de övrige Haandskrifter.*

2) *I Membranen feilskrevet* veðr.

3) *4. add. har*: forvitl. 4) ok, *som Membranen udelader, er her tilföiet ifölge samtlige Papirshaandskrifter.*

Hann heldr kappsamliga sína menn, ok láta hvergi sinn hlut, ok er ekki mjök á þá gengit. Hann er góðr ok greiðr við alla sína nágranna. Hvergi þykkir nú minni[1] rausn nè risna[2] á búinu, en áðr; eigi skortir umsýslu, ok fara ráðin vel fram; líðr nú á sumarit; ríðr hann til leiðar ok helgar hana. Ok er á leið haustið, ferr hann á fjall, er menn ganga at geldfè, ok verða heimtur góðar[3]; er ríkt fylgt, ok missir engis sauðar, hvárki fyrir sína hönd nè Odds.

[4]Svá bar til um haustið, at Úspakr kom norðr í Víðidal, á Svölustaði; þar bjó kona sú, er Svala hèt. Þar var hánum veittr beinleiki. Hón var væn kona ok ung. Hón talar til Úspaks, ok biðr hann sjá um ráð sitt; „hefi ek þat frètt, at þú ert búmaðr mikill". Hann tók því vel, ok tala þau mart; fèllst hvárt öðru vel í geð, ok litust þau vel til ok blíðliga; ok þar kemr tali þeirra, at hann spyrr, hverr ráða eigi fyrir kosti hennar. „Engi maðr er mèr skyldri", segir hón, „sá er nökkurs er verðr, en Þórarinn Langdœlagoði hinn spaki". Síðan ríðr Úspakr til fundar við Þórarinn, ok er þar tekit við hánum vel at eins. Hann hefir nú uppi sitt erendi ok biðr Svölu. Þórarinn svarar: „Ekki kann ek at girnast til þíns mægis[5]; er margtalat um þínar meðferðir; kann ek þat sjá, at ekki má í tveim höndum[6] hafa við slíka menn, annathvárt at taka upp bú hennar, ok láta hana fara higat, ella munu þit göra, sem ykkr líkar. Nú mun ek mèr engu af skipta, ok kalla ek ekki

---

1) *Rettelse for det i Membranen feilskrevne* min̄.

2) *I Membranen skrevet* ristna.

3) *I Membranen feilskrevet* goða.

4) *Membranen har her som Overskrift:* Ofpakr feck ſuolo.

5) *554 aβ, 568 og 4. add.:* þinna mægða; *163 o og 165 L:* þinnar mágsemdar.

6) *I Membranen feilskrevet* hondu.

þetta mitt ráð". Eptir þetta ferr Úspakr á brott, ok kemr á Svölustaði, ok segir henni svá búit. Nú göra þau ráð sitt, ok fastnar hón sik sjálf, ok ferr hón með hánum á Mel; en þau eiga bú á Svölustöðum, ok fá menn til fyrir at vera. Nú er Úspakr á Mel, ok hèlt rausn í búinu. Hann þótti þó vera údældarmaðr mikill. Nú líðr af vetrinn, ok um sumarit kom Oddr út í Hrútafirði; hafði hánum enn orðit gott til fjár ok mannheilla; kemr heim á Mel, ok lítr yfir eignir sínar; þykkir vel varðveizt hafa, ok[1] gezt vel at; líðr nú á sumarit. Þat er eitt sinn, at Oddr vekr til við Úspak, at vel muni fallit, at hann tœki við goðorði sínu. Úspakr sagði: „Já", segir hann, „þar er sá hlutr, er ek var úfúsastr til með at fara, ok sízt til fœrr; er ek þess ok albúinn; en þat ætla ek mönnum þó tíðast, at þat sè gört annathvárt á leiðum eða þingum". Oddr svarar: „Þat má vel vera". Líðr nú á sumarit at leiðinni fram. Ok leiðarmorgininn, er Oddr vaknar, litast hann um, ok sèr fátt manna í skálanum; hefir hann sofit fast ok lengi, spratt upp, ok veit, at menn eru görsamliga ór skálanum. Hánum þótti þetta undarligt, ok talar þó fátt. Hann býst um, ok nökkurir menn með hánum. Þeim[2] þótti þetta undarligt, ok ríða nú til leiðarinnar. Ok er þeir komu þar, þá var þar mart manna fyrir, ok váru þá mjök brott búnir, ok var helguð leiðin. Oddi bregðr nú í brún, ok[3] þykkir undarlig þessi tiltekja; fara menn heim, ok líða þaðan nökkurir dagar. Þat var enn einn dag, er Oddr sat undir borði, ok Úspakr gegnt hánum; ok er minnst varir, hleypr Oddr undan borðinu ok at Úspaki, ok hefir reidda exi í

---

1) *Efter* ok *tilföier Membranen* $\overset{2}{c}$=eðr, *som synes uden Mening og blot forvirrende.*

2) Þeim *er udeladt i Membranen, og ligesaa i de fleste övrige Haandskrifter, men tilföiet som nödvendigt Tillæg ifölge 4. add.*

3) ok *er udeladt i Membr., men tilföiet ifölge 165 L og flere Haandskrifter.*

hendi sèr; biðr hann nú laust láta goðorðit. Úspakr svarar: „Eigi muntu þurfa með svá miklu kappi at sœkja; þegar hefir þú goðorðit,[1] er þú vilt, ok vissa ek eigi, er[2] þèr væri alvara við at taka". Rètti hann þá fram höndina, ok fèkk Oddi goðorðit. Var nú kyrrt um hríð, ok hèðan af[3] görist fátt með þeim[4] Oddi ok Úspaki; er Úspakr heldr ýgr viðskiptis; grunar menn um, at Úspakr mundi hafa ætlat sèr goðorðit at hafa, en eigi Oddi, ef eigi hefði verit kúgat af hánum, at hann mætti undan komast. Nú verðr ekki af búsumsýslunni Úspaks[5]. Oddr kveðr hann at engu; mæltust þeir ok ekki við. Þat var einn dag, at Úspakr býr ferð sína. Oddr lætr, sem hann viti þat eigi; skiljast þeir svá, at hvárrgi kveðr annan. Úspakr ferr nú á Svölustaði, til bús síns. Oddr lætr nú, sem ekki sè at orðit, ok er nú kyrrt um hríð.

Þess er getið, at um haustið fara menn á fjall, ok skaut mjök í tvau horn um heimtur Odds frá því, er verit hafði. Hann skorti at haustheimtum[6] fjóra tygi geldinga, ok þá alla, er beztir váru af fè hans; er nú víða leitað um fjöll ok heiðar, ok finnast eigi. Undarligt þótti þetta vera; því at Oddr þótti fèauðnumaðr meiri, en aðrir menn. Svá mikill atrekandi var görr um leitina, at bæði var leitað til annarra hèraða ok heima, ok görði eigi; ok um síðir dofnar enn yfir þessu, ok var þó margrœtt um, hverju gegna mundi. Oddr var ekki glaðr um vetrinn. Vali frændi hans

1) *Rettelse overeensstemmende med samtlige Papirshaandskrifter istedenfor Membranens* goðorð.

2) *Saaledes Membranen*; *samtlige Papirshaandskrifter have*: at.

3) *Feilskreret i Membranen* heð.

4) með þeim *er udeladt i Membranen, men her tilföiet ifölge de övrige Haandskrifter.*

5) Úspaks *er udeladt saavel i Membranen som de övrige Haandskrifter, men her tilföiet som nödvendigt Tillæg.*

6) *Rettelse istedenfor* haufthēitu, *som findes i Membranen, 163 o og 165 L. De övrige Haandskrifter have* á haustheimtur.

frètti hann, hví hann væri úglaðr, „eða hvárt þykki þèr svá mikit geldingahvarfit? ok ertu eigi þá mikill borði,[1] ef þik hryggir slíkt". Oddr svarar: „Eigi hryggir mik geldingahvarfit; en hitt þykki mèr verra, er ek veit eigi, hverr stolit hefir". „Þykki þèr þat víst", segir Vali, „at þat mun af orðit? eða hvar horfir þú[2] helzt á? Oddr svarar: „Ekki er því at leyna, at ek ætla Úspak stolit hafa". Vali svarar: „Ferrst nú vinátta ykkur frá því, er þú settir hann yfir allt þitt góz". Oddr kvað þat verit hafa hit mesta glapræði, ok vánum betr tekizt hafa. Vali mælti: „Margra manna mál var þat, at þat væri undarligt. Nú vil ek, at þú snúir eigi svá skjótt málinu til áfellis hánum; er þat hætt við orði, at úmerkiliga þykki verða. Nú skulu vit því saman kaupa", sagði Vali, „at þú skalt mik láta fyrir ráða, hversu at er farit, en ek skal verða víss hins sanna". Nú kaupa þeir þessu. Vali býr nú ferð sína, ok ferr með varning sinn; ríðr út til Vatnsdals ok Langadals, og selr varninginn; var hann vinsæll ok tillagagóðr. Hann ferr nú leið sína, þar til er hann kemr á Svölustaði, ok fèkk þar góðar viðtökur. Úspakr var allkátr. Vali bjóst þaðan um morgininn. Úspakr leiddi[3] hann ór garði, ok frètti margs frá Oddi. Vali sagði gott af hans ráði. Úspakr lèt vel yfir hánum, ok kvað hann vera rausnarmann mikinn; „eða er hann fyrir sköðum orðinn í haust?" Vali kvað þat satt vera. „Hverjar eru getur á um sauðahvarfit?" segir Úspakr;[4] „hefir Oddr lengi fègefinn verit hèr til." Vali svarar: „Eigi er þat á eina leið. Sumir ætla, at vera muni af

1) *Saaledes Membranen, 140 og 493; 165 L, 455 og 4. add. have* bóndi; *554 a β har* i skapi.

2) *Imellem* þú *og* helzt *indskyder Membranen feilagtig* a, *uagtet* a *ogsaa staaer bagefter* helzt.

3) *Rettelse for det i Membranen feilagtig skrevne* leidd.

4) segir Úspakr *er udeladt i Membranen, men det er her tilföiet ifölge samtlige Papirshaandskrifter.*

mannavöldum". Úspakr segir: „Ætlanda er slíkt, ok er eigi margra brögð: „Svá[1] er ok", segir Vali[2]. Úspakr mælti: „Hefir Oddr nökkurar getur á?" Vali mælti: „Fátalaðr er hann til; en þó er fjölrœtt um af öðrum mönnum, hverju gegna muni". „Þat er eptir vánum", sagði Úspakr. „Á þá leið er", sagði Vali, „er þó höfu vit þetta talat, at þat vilja sumir menn kalla eigi úvænt, at vera muni af þínum völdum; draga menn þat saman, er þit skildut stuttliga, en hvarfit varð eigi miklu síðarr". Úspakr svarar: „Eigi varði mik, at þú mundir slíkt mæla; ok ef vit værim eigi slíkir vinir, þá munda ek þessa sárliga hefna". Vali svarar: „Eigi þarftu þessa at dylja, eða svá óðr við að verða; eigi mun þetta af þèr bera[3], ok hefi ek sèt yfir ráð þitt, ok sè ek þat, at miklu hefir þú meiri föng, en líkligt sè at vel muni fengit". Úspakr svarar: „Eigi mun svá reynast; ok eigi veit ek, hvat tala fjandmenn várir, er slíkt tala vinirnir". Vali svarar: „Þetta er ok ekki af fjandskap mælt af mèr við þik, er þú heyrir einn á. Nú ef þú görir svá, sem ek vil, ok gangir við fyrir mèr, þá mun þèr lètt falla; því at ek skal setja[4] ráð til þess. Ek hefi seldan varning minn víða um sveitir; mun ek segja, at þú hafir við tekit, ok keypt þèr með slátr ok aðra hluti; mun þat[5] engi maðr mistrúa; skal ek svá til haga, að þèr verði engi úsœmd at þessu, ef þú fylgir mínu ráði at". Úspakr sagðist eigi mundu við ganga. „Þá mun fara verr", segir Vali, „ok veldr þú sjálfr". Síðan skiljast þeir, ok ferr

---

1) *I Membranen er dette Ord skrevet* su.

2) segir Vali *er udeladt i Membranen, men tilföiet overeensstemmende med de övrige Haandskrifter.*

3) *Saaledes Membranen. 140 og 493 have:* því at meiri ván er, at eigi beri af þèr. *455, 554 a β, 568 og 4. add. have* muntu *f.* mun.

4) setja *er feilagtig skrevet to Gange i Membranen.*

5) *Saaledes Membranen og 455; 163 o, 165 L, 554 a β, 568 og 4. add. have* því.

Vali heim. Oddr spyrr, hvers hann hefði víss orðit[1] um sauðahvarfit. Vali lèt sèr fátt úm finnast. Oddr mælti: „Nú þarf eigi við at dyljast, at Úspakr hefir stolit; því at þú mundir hann gjarna undan bera, ef þú mættir". Er nú kyrrt um vetrinn. Ok er váraði, ok stefnudagar komu, þá ferr Oddr með tuttugu menn, þar til er hann kom mjök at garði á Svölustöðum. Þá mælti Vali við Odd: „Nú skulu þèr láta taka niðr hesta yðra, en ek mun ríða til húss ok hitta Úspak, ok vita, at[2] hann vili sættast, ok þurfi málit eigi fram at hafa". Nú göra þeir svá. Vali ríðr heim. Ekki var manna úti. Opnar váru dyrr; gengr Vali inn. Myrkt var í húsum; ok er minnst varir, hleypr maðr ór setinu, ok höggr milli herða Vala, svá at hann fèll þegar. Vali mælti: „Forða þèr, vesall maðr! því at Oddr er skammt frá garði, ok ætlar at drepa þik. Send konu þína á fund Odds, ok segi hón, at vit sèm sáttir, ok hafir þú gengit við málinu, en ek sè farinn at fjárreiðum mínum út í dali". Þá mælti Úspakr: „Þetta er hit vesta verk orðit; hafða ek Oddi þetta ætlat, en eigi þèr". Svala hittir nú Odd, ok segir þá sátta, Úspak ok Vala, „ok bað Vali þik aptr hverfa". Oddr trúir þessu ok ríðr heim. Vali lèt líf sitt, ok var flutt lík hans á Mel. Oddi þóttu þetta mikil tíðendi ok ill; fær hann af þessu úvirðing, ok þótti slysliga tekizt hafa. Nú hverfr Úspakr á brott, svá at eigi vita menn, hvat af hánum verðr.

[3] Nú er frá því at segja, at Oddr býr mál þetta til þings, ok kveðr heiman búa. Þat verðr til tíðenda, at maðr andast ór kvöðinni. Oddr kveðr annan í staðinn; fara menn nú til þings, ok er þar kyrrt framan til dóma. Ok

---

1) *I Membranen er dette Ord skrevet* vorðit.

2) *Saaledes Membranen. 165 L, 140 og 493 have* ef; *de övrige Haandskrifter have:* hvárt hann vill *etc.*

3) *Membranen har her som Overskrift:* buit mal til þings.

er dómar fara út, hefir Oddr fram vígsmálit, ok tekst hánum þat greitt, ok er nú boðit til varna. Skammt í brott frá dómunum[1] sátu þeir höfðingjarnir, Styrmir ok Þórarinn, með flokk sinn. Þá mælti Styrmir við Þórarinn: „Nú er til varna boðit um vígsmálit; eða viltu nökkur andsvör[2] veita þessu máli". Þórarinn svarar: „Engu mun ek mèr þar af skipta; því at mèr sýnist Odd nóg nauðsyn til reka, at mæla eptir slíkan mann, sem Vali var, en sá fyrir hafðr, at[3] ek ætla at sè hinn vesti maðr". „Já", sagði Styrmir, „eigi er maðrinn góðr víst; en þó er þèr nökkurr vandi á við hann". „Ekki hirði ek þat", sagði Þórarinn. Styrmir mælti: „Á hitt er at líta, at yðvart vandræði mun verða, ok þá miklu meira ok torveldra, ef hann verðr sekr, ok sýnist mèr ásjámál vera, ok leitum í nökkurra ráða; því at sjáum[4] vit báðir vörn í málinu". „Fyrir löngu sá ek þat", segir Þórarinn, „ok lízt mèr þó eigi ráðligt at seinka málit".[5] Styrmir mælti: „Til þín kemr þó mest, ok þat munu menn tala, at þèr verði lítilmannliga, ef fram ferr málit, en vörnin sè brýn; er þat ok mála sannast, at vel væri, þótt Oddr vissi, at fleiri eru nökkurs verðir, en hann einn; treðr hann oss alla undir fótum ok þingmenn vára, svá at hans eins er getið; sakar eigi, at[6] hann reyni, hversu lögkœnn hann er". Þórarinn svarar: „Þú skalt ráða, ok þèr mun ek at-veita; en eigi er þetta góðvænligt, ok mun illan enda eiga". „Ekki má at því fara", sagði Styrmir; sprettr upp og gengr at dómum;[7] spyrr, hvat þar fari fram málum manna.

1) *Saaledes Membranen. De övrige Haandskrifter:* dóminum.
2) *I Membranen skrevet* aňsvor.
3) *I Membranen er dette Ord feilagtigen skrevet to Gange.*
4) *Saaledes Membranen her: jfr. S.* $20^2$, $32^{23}$, $33^3$.
5) *Saaledes Membranen, 163 o og 165 L, 455, 554 a β, 568 og 4 add.:* málinu.
6) *Saaledes Membranen og 568. 165 L, 455 og 554 a β* þó. *4 add.:* þótt.
7) *Saaledes Membranen her og flere Steder, hvorimod de övrige Haandskrifter have:* dóminum.

Hánum er þat sagt. Styrmir mælti: „Svá er háttað, Oddr! at varnir eru fundnar í máli þínu, ok hefir þú rangt til búit málit; kvatt heiman tíu búa; er þat lögleysa; áttir þú þat á þingi at göra, en eigi í hèraði; gör nú annathvárt: gakk frá dóminum við svá búit, eða vèr munum fœra fram vörnina". Oddr þagnar, ok hugsar málit; finnr, at satt er, gengr frá dóminum með flokk sinu, ok heim til búðar. Ok er hann kemr í búðarsundit, þá gengr maðr í mót hánum; sá er við aldr. Hann var í svartri ermakápu, ok var hón komin at sliti; ein var ermr á kápunni, ok horfði sú á bak aptr. Hann hafði í hendi staf og brodd í; hafði síða hettuna, ok rak undan skygnur, stappaði niðr stafnum, ok fór heldr þjúgr. Þar var kominn Úfeigr karl, faðir hans. Þá mælti Úfeigr: „Snemma gangi þèr frá dómum", sagði hann, „ok er yðr eigi einn hlutr vel gefinn, at svá er allt snarligt ok snöfurligt um yðr; eða er hann sekr, Úspakr?" „Nei", sagði Oddr; „eigi er hann sekr". Úfeigr mælti: „Eigi er þat höfðingligt, at ginna mik gamlan; eða hví mundi hann eigi sekr? var hann eigi sannr at sökinni?" „Sannr víst", segir Oddr. „Hvat er þá?" segir Úfeigr; „ek hugða, at hann mætti bíta sökin; eða var hann eigi banamaðr Vala?" „Engi mælir því í mót", sagði Oddr. Úfeigr mælti: „Hví er hann þá eigi sekr?" Oddr svarar: „Vörn faunst í málinu, ok fèll niðr". Úfeigr mælti: „Hví mundi vörn finnast í máli svá auðigs manns?" „Þat kölluðu þeir, at rangt væri heiman búit", segir Oddr. „Eigi mun þat vera, er þú fórt með málit", sagði Úfeigr; „en vera kann, at þèr sè meirr lagðr fèsnúðr ok ferðir, en[1] allgott[2] tilstilli um málaferli, en þó ætla ek, at þú berir nú eigi satt upp fyrir mik".

---

1) en *er i Membranen feilagtigen skrevet to Gange.*

2) *Rettelse overeensstemmende med 455, 554 a β. 568 og 4. add., istedenfor Membranens* algott, *163 o og 165 L have:* allt gott.

Oddr svarar: „Ek hirði aldri, hvárt þú trúir eða eigi". „Svá kann vera", sagði Úfeigr; „en þegar vissa ek, er þú fórt heiman ór hèraði, at rangt var til búit málit, en þú þóttist þèr œrinn einn, ok vildir engan mann at spyrja; nú muntu ok vera þèr nógr einn um þetta mál; er nú bæði, at þèr mun vel takast, enda er slíkum allvant um, er allt þykkir lágt hjá sèr". Oddr svarar: „Þat er þó sýnna, at eigi verði at þèr gagn". Úfeigr mælti: „Sú ein er nú hjálpin í þínu máli, ef þú nýtr mín við; eða hversu fèsparr mundir þú nú vera, ef nökkurr leiðrètti málit?" Oddr svarar: „Ekki sperða ek fè, ef nökkurr vildi ganga í málit". Úfeigr mælti: „Þá láttu koma í hendr karli þessum sjóð nökkurn digran; því at margra manna augu verða fèskjálg". Oddr fær hánum mikinn fèsjóð. Þá spurði Úfeigr: „Hvárt var fram fœrð lögvörnin eða eigi?"[1] „Fyrri gengu[2] vèr frá dómunum", sagði Oddr. Úfeigr svarar: „Þat eina heldr fram, er þú görðir úvitandi". Nú skiljast þeir, ok gengr Oddr heim til búðar sinnar.

[3]Nú er þar til at taka, at Úfeigr karl gengr upp á völluna, ok til dómanna; kemr at Norðlendingadómi, ok spyrr, hvat þar fari fram málum manna. Hánum er sagt, at sum váru dœmd, en sum búin til reifingar. „Hvat líðr um mál Odds, sonar míns, eða er því lokit nú?" „Lokit sem mun", sögðu þeir. Úfeigr mælti: „Er hann sekr orðinn, Úspakr?" „Nei", segja þeir; „eigi er þat". „Hvat veldr því?" sagði Úfeigr. „Vörn fannst í málinu", sögðu þeir, „ok var rangt til búit". „Já", sagði hann Úfeigr; „munu þèr lofa mèr at ganga í dóminn?" Þeir játta því. Hann gengr í dómhringinn ok sezt niðr. Úfeigr mælti: „Hvárt

1) eigi *er udeladt i Membranen, men tilföiet som nödvendigt Tillæg ifölge 165 L.* 2) *I Membranen skrevet* gingu.

3) *Membranen har her som Overskrift:* af ofegi kalli.

er dœmt mál Odds, sonar míns?" „Dœmt er þat, sem mun", segja þeir. „Hví gegnir þat?" segir Úfeigr; „er villt upp borit um sökina á hendr Úspaki? drap hann eigi Vala saklausan? nam þat við, at eigi væri málit brýnt?" Þeir segja: „Vörn fannst í málinu, ok fèll niðr". Hverneg er vörn sú?" sagði Úfeigr. Þá var hánum sagt. „Svá víst", segir hann. „Sýnist yðr þat með nökkurum rèttendum, at gefa gaum at slíku, er engis er vert, en dœma eigi hinn vesta mann sekjan, þjóf ok manndrápsmann? Er þat eigi ábyrgðarhlutr mikill, at dœma þann sýknan, er dráps er verðr, ok dœma svá í móti rèttendum?" Þeir sögðu, at þeim þœtti þat eigi rèttligt; en þó sögðu þeir þat fyrir sik lagt. „Svá má vera", sagði Úfeigr. „Unnu þèr eiðinn?" segir Úfeigr. „At vísu", sögðu þeir. „Svá mun verit hafa", sagði hann; „eða hversu kváðu þèr at orði? Eigi svána, at þèr skyldut þat dœma, at þèr vissut sannast ok helzt at lögum? svá mundu þèr mæla". Þeir kváðu svá vera. Þá mælti Úfeigr; „En hvat er sannara, en dœma hinn vesta mann sekjan ok dræpan ok firrðan allri björg, þann er sannreyndr er at stuld, ok at því, at hann drap saklausan mann, Vala; en þat hit þriðja, er at fellr eiðrinn, má kalla nökkut sveigt. Hyggit nú at fyrir yðr, hvárt meira er vert, þessi tvau orðin, er sæta sannendum ok rèttendum, eða hitt eitt, er víkr til laganna. Svá mun yðr sýnast sem er; því at þèr munut sjá kunna, at þat er meiri ábyrgð, at dœma þann frjálsan, er makligr er dauðans, en hafa áðr svarit eiða, at þèr skyldut svá dœma, sem þèr vissit rèttast. Nú megi þèr[1] svá á líta, at þetta mun yðr þungt falla, ok undan þessi ábyrgð varla komast". Úfeigr lætr stundum síga sjóðinn niðr undan kápunni, en stundum

[1]) þèr *er udeladt i Membranen, men tilföiet som nödvendigt Tillæg overeensstemmende med de övrige Haandskrifter.*

kippir hann upp. Þat finnr hann, at þeir renna augum til sjóðsins. Hann mælti þá til þeirra: „Þat væri ráðligra, at dœma rètt ok satt, sem þèr hafit svarit, ok hafa þar í mót þökk ok ófúsu hygginna manna ok rèttsýnna". Hann tók síðan sjóðinn, ok steypti ór silfrinu, ok taldi fyrir þeim. „Nú vil ek lýsa vináttubragð við yðr", sagði hann, „ok sè ek þó meirr fyrir yðr í þessu, en fyrir mèr, ok göri ek því svá, at þèr erut sumir vinir mínir, en sumir frændr, ok þó þeir einir, at nauðsyn heldr til, at hverr gæti sjálfs síns; vil ek gefa hverjum manni eyri silfrs, er í dómi sitr, en þeim hálfa mörk, er reifir málit, ok hafi þèr þá bæði fèit ok firrða yðr ábyrgð, en spillit eigi sœrum yðrum, er þó liggr mest við". Þeir hugsa málit, ok lízt sannligt vera við umtölur hans, en þykkir áðr komit í illt efni um eiðabrigðin[1], ok kjósa þeir þann kost af, er Úfeigr bauð þeim. Er þá þegar sent eptir Oddi, ok kemr hann þar, en höfðingjarnir eru þá heim gengnir til búða. Nú er þegar fram haft málit, ok er Úspakr sekr görr, ok síðan nefndir váttar, at dómsorði væri á lokit. Nú fara menn heim til búða sinna við svá búit. Engi frètt fór af þessu um nóttina. En at lögbergi um morgininn stendr Oddr upp ok talar hátt: „Hèr varð maðr sekr í nótt, er Úspakr heitir, í Nordlendingadómi, um víg Vala. En þat er at segja til sektarmarka hans, at hann er mikill vexti ok karlmannligr; hann hefir brúnt hár ok stór bein í andliti[2], svartar brýnn, miklar hendr, digra leggi, ok allr hans vöxtr er afburðar mikill, ok er maðr hinn glœpamannligsti". Nú bregðr mönnum í brún mjök; margir höfðu áðr enga frètt af haft; þykkir mönnum Oddr fast fylgt hafa, ok giptusamliga til hafa tekizt, svá sem komit var málinu.

---

1) *Saaledes Membranen, 163 o og 165 L. 455, 554 a β, 568 og 4. add. have* eiðabrigðina. 2) *I Membranen skrevet* aŭllti.

[1] Frá því er sagt, at þeir, Styrmir ok Þórarinn, talast við. Styrmir mælti: „Mikla sneypu ok svivirðing höfum[2] vit af þessu máli fengit". Þórarinn segir þat eptir líkendum, „ok munu hèr vitrir menn hafa um vèlt". „Já", sagði Styrmir; „sèr þú nökkut nú til leiðrèttu?" „Eigi veit ek, at þat megi brátt verða," segir Þórarinn. „Hvat helzt?" segir Styrmir. Þórarinn svarar: „Væri sökin við, þá er fè var borit í dóm, ok sú mun bíta". „Þat[3] er", segir Styrmir. Ganga þeir þá í brott ok heim til búða. Þeir heimta nú saman vini sína ok tengðamenn á eina málstefnu. Þar var einn Hermundr Illugason, annarr Gellir Þórðarson[4], þriði Egill Skúlason, fjórði Járnskeggi Einarsson, fimmti Skeggbroddi Bjarnason, sètti Þorgeirr Halldóruson, ok þeir Styrmir ok Þórarinn. Þessir átta menn ganga nú á tal. Segja þeir, Styrmir ok Þórarinn, málavöxtu, ok hvar þá var komit, ok hversu mikill slœgr til var fjárins Odds, ok þat, at allir munu þeir fullsælir af verða. Þeir ráða nú til fasta með sèr, að veitast allir at málinu, svá at annathvárt skyli[5] fyrir koma sektir eða sjálfdœmi; ganga nú síðan í bönd ok eiða, ok hyggja nú, at þessu megi ekki bregða, ok engi muni traust á bera eða kunnáttu, í móti at rísa. Skilja at svá mæltu, ok ríða menn heim af þingi, ok ferr þetta fyrst af hljóði. Oddr unir nú vel við sína þingreið, ok er nú fleira í frændsemi með þeim feðgum, en verit hafði; sitr nú um kyrrt þau missari. Ok um várit hittast þeir feðgar

1) *Membranen har her som Overskrift:* en af banda mm (=mönnum).

2) *Saaledes Membranen her; jfr. S. 15*[15], *32*[23], *33*[3].

3) *Rettelse overeensstemmende med 455, 554 a β, 568 og 4. add., istedenfor Membranens* þa, *som ingen Mening synes at give. I 163 o og 165 L have Afskriverne villet rette Membranens Skriverfeil ved at sætte:* „Ok sú mun bíta þa".

4) *Saaledes Membranen og de övrige Haandskrifter med Undtagelse af 140 og 493, der have:* Gellir Þorkelsson fra Helgafelli.

5) *Gisning for Membranens* skili, *som enten kan være Skrivefeil for* skuli, *eller, som jeg hellere troer, skrevet ifölge Udtalen for* skyli; *jfr. Side 31*[18].

við laug, ok spyrr Úfeigr tíðenda. Oddr lèzt engi frètta, ok spyrr á móti. Úfeigr segir, at þeir, Styrmir ok Þórarinn, hafa safnat liði, ok ætla at fara á Mel stefnuför. Oddr frèttir, hver sök til þess sè. Úfeigr segir hánum alla ætlan þeirra. Oddr svarar: „Ekki lízt mèr þetta þungt". Úfeigr segir: „Þat má vera, at yðr verði þat ekki um afl". Líða nú stundir at stefnudögum, ok koma þeir, Styrmir ok Þórarinn, á Mel með fjölmenni. Oddr hafði ok mart manna fyrir. Þeir höfðu[1] fram mál sín, ok stefna Oddi til alþingis, fyrir þat, er hann hafði látið bera fè í dóm at úlögum. Verðr þar ekki fleira til tíðenda, ok ríða þeir í brott með flokk sinn. Svá berr enn til, at þeir feðgar hittast ok talast við; spyrr Úfeigr, hvárt hánum þykki enn engis um vert. Oddr svarar: „Eigi lízt mèr þetta mál þungligt". „Eigi sýnist mèr svá", segir Úfeigr; „eða hversu görla veiztu, í hvert efni komit er?" Oddr lèzt vita þat, er þá var fram komit. Úfeigr svarar: „Meira slóða mun draga, at því er ek hygg; því at sex höfðingjar aðrir, þeir at mestir eru, hafa gengit í málit með þeim. Oddr svarar: „Mikils þykkir þeim við þurfa". Úfeigr mælti: „Hvert mun þitt ráð nú vera". Oddr svarar: „Hvat nema ríða til þings ok biðja sèr liðs". Úfeigr svarar: „Þat sýnist mèr úvænt at svá föllnu máli, ok mun eigi gott, at eiga sína sœmd undir liði flestra". „Hvat er þá til ráðs?" segir Oddr. Úfeigr mælti: „Þat er mitt ráð, at þú búir skip þitt um þing, ok ver búinn með allt lausagóz þitt, áðr menn ríða af þingi. Eða hvárt þykki þèr betr komit þat fè, er þeir taka upp fyrir þèr, eða hitt, er ek hefi". „Þat þykki mèr illskárr[2], at þú hafir". Ok nú fær Oddr föður sínum einn digran fèsjóð, fullan af

1) *I Membranen er dette Ord skrevet* hafðu.

2) *Rettelse overeensstemmende med 455, 554 a β, og 4. add. istedenfor Membranens feilskrevne* illſkan̄.

silfri, ok skiljast at því. Oddr býr nú skip sitt ok ræðr menn til. Líðr nú fram at þinginu, ok ferr þessi ráðagörð af hljóði, svá at fáir verða vísir.

[1] Nú ríða þeir höfðingjarnir til þings, ok fjölmenna mjök. Úfeigr karl var í flokki Styrmis. Þeir bandamenn mæltu mót með sèr á Bláskógaheiði: Egill ok Styrmir ok Hermundr ok Þórarinn; ríða nú allir saman suðr til vallarins. Þeir ríða austan: Skeggbroddi ok Þorgeirr Halldóruson ór Laugardal, en Járnskeggi norðan, ok hittast hjá Reyðarmúla; ríða nú allir flokkarnir ofan á völluna, ok svá á þing. Þar er nú flest um talat, sem mál Odds eru; þykkir þat öllum mönnum víst vera, at hèr muni engi fyrir svara; ætla þat, at fáir þori, enda göri engum, slíkir höfðingjar sem til móts eru; þykkir þeim ok allvænt um sitt mál, ok brasta allmikit. Engi er sá, er í móti þeim kasti einu orði. Oddr hefir engum manni um sitt mál boðit; býr hann skip sitt í Hrútafirði, þegar menn váru til þings farnir. Þat var einn dag, er Úfeigr karl gekk frá búð sinni, ok var áhyggjumikit[2]; sèr enga[3] liðveizlumenn sína, en þótti við þungt at etja; sèr varla sitt færi einum við slíka höfðingja, en í máli váru engar verndir; ferr hækilbjúgr; hvarflar í milli búðanna, ok reikar á fótum; ferr þanneg lengi; kemr um síðir til búðar Egils Skúlasonar. Þar váru þá menn komnir til tals við Egil. Úfeigr veik hjá búðardyrunum, ok beið þar til þess, er mennirnir gengu í brott. Egill fylgði þeim út; en er hann ætlar inn at ganga, þá snýr Úfeigr fyrir hann, ok kvaddi Egil. Hann leit við hánum, ok spurði, hverr hann væri. „Úfeigr heiti

1) *Membranen har her som Overskrift*: ap banda mn̄.

2) *Saaledes Membranen, 455 og 568. 163 o, 165 L, 554 a β og 4. add.*: áhyggjumikill.

3) *I Membranen er dette Ord skrevet* engua, *hvilket nærmer sig Formerne* öngva *og* aungva.

ek", sagði hann. Egill mælti: „Ertu faðir Odds?" Hann kvað svá vera. „Þá muntu vilja tala um mál hans; en þat þarf ekki við mik at tala; miklu er því meirr fyrir komit, en ek mega þar neitt til leggja; eru ok aðrir meirr fyrir því máli en[1] ek: Styrmir ok Þórarinn; láta þeir mest til sín taka, þó at vèr fylgim þeim at". Úfeigr svarar, ok varð staka á munni:

Fyrr var sœmra
til sonar hugsa.
Gekk ek aldregi
Odds at sinni;
sá hann[2] lítið
til laga, gassi,
þótt fjár hafi
fullar gnóttir.

Ok enn kvað hann:

Þat er nú gömlum
gleði heimdraga,
at spjalla helzt
við spaka drengi.
Muntu eigi mèr
máls of synja;
því at virðar þik
vitran[3] kalla.

„Mun ek fá mèr annat til skemmtanar, en tala um mál Odds; hefir þat verit rífligra, en nú; muntu eigi vilja synja mèr máls. Er þat nú helzt gaman karls, at tala við þess háttar menn, ok dvelja svá af stundir". Egill svarar: „Eigi skal varna þèr máls". Ganga þeir nú tveir

---

1) en *er udeladt i Membranen, men tilföiet som nödvendigt Tillæg, overeensstemmende med samtlige de övrige Haandskrifter.* 2) *Skulde det være feilskrevet i Memmbr. for* kann? 3) *I Membranen feilskrevet* vitra.

saman, ok setjast niðr. Þá tekr Úfeigr til orða: „Ertu búmaðr, Egill?" Hann kvað svá vera.[1] „Býr þú þar at Borg?" „Þat er satt", segir Egill. Úfeigr mælti: „Vel er mèr frá þèr sagt ok skapfelldliga[2]; er mèr sagt, at þú sparir við engan mann mat, ok sèr rausnarmaðr, ok okkr sè ekki úlíkt farit; hvárrtveggi maðrinn ættstórr ok góðr af sínu, en úhœgr fjárhagrinn; ok þat er mèr sagt, at þèr þykki gott vinum þínum at veita". Egill svarar: „Vel þœtti mèr, at mèr væri svá farit at frètt sem þèr; því at ek veit, at þú ert ættstórr ok vitr". Úfeigr mælti: „Þat er þó úlíkt; því at þú ert höfðingi mikill, ok óttast ekki, hvat sem fyrir er, ok lætr aldri þinn hlut, við hvern sem þú átt, en ek lítilmenni; en skaplyndi kemr saman helzt með okkr; ok er þat harmr mikill, er slíka menn skal nökkut fè skorta, er svá eru miklir borði". Eigill svarar: „Þat kann vera, at þat skiptist brátt, at hœgist ráðit". „Hversu kemr þat til?" kvað Úfeigr. „Þanneg hyggst mèr", sagði Egill, „ef undir oss berr fèit Odds, at þá muni fátt skorta; því at oss er þar mikit af sagt auð þeim". Úfeigr svarar: „Eigi mun þat aukit, þó at hann sè sagðr ríkastr maðr á Íslandi; en þó mun þèr forvitni á, hverr þinn hlutr verðr af fènu; því at þú ert þess mjök þurfi". „Þat er satt", kvað Egill, „ok ertu góðr karl ok vitr, ok muntu vita görla um fè Odds". Hann svarar: „Þess vænti ek, at þat sè eigi öðrum kunnigra, en mèr, ok kann ek þat at segja þèr, at engi segir svá mikit frá, at eigi sè þó meira; en þó hefi ek hugsat um áðr fyrir mèr, hvat þú munt af hljóta"; ok varð hánum vísa á munni:

Satt er, at sœkir átta
seims ágirni heima

---

1) vera *er udeladt i Membranen.* 2) *Saaledes Membranen. 165 L, 455, 554 a β, 568 og 4. add. have:* skapfelliga.

(orð görast auðar njörðum
úmæt[1]) ok ranglæti.
Ynna ek yðr fyrir mönnum
iðja hlátr at láta,
þundum þykkra randa
þeys, ok sœmdarleysis.

„Hratt mundi þat úlíkligt", segir Egill, „ok ertu skáld gott". Úfeigr mælti: „Ekki skal þat draga fyrir þèr, hverja fullsælu þú munt upp taka, en þat er hinn sextándi hlutr ór Melslandi". „Heyr á endemi!" sagði Egill; „eigi er þá fèit jafnmikit, sem ek hugða; eða hversu má þetta vera?" Úfeigr svarar: „Eigi er þat; allmikit er fèit; en þess væntir mik, at þessu næst munir þú hljóta. Hafi þèr eigi svá talat, at þèr skyldut hafa hálft fè Odds, en fjórðungsmenn hálft? þá telst mèr þanneg til, ef þèr erut átta bandamenn, at þèr munit hafa hálft Melsland; því at svá munu þèr til ætla, ok svá mælt hafa, þó at þèr hafit þetta með fádœmum upp tekit meirum, en menn viti dœmi til, þá munu þèr þessi atkvæði haft hafa. Eða var yðr nökkur ván á því, at Oddr, son minn, mondi sitja kyrr fyrir geisan[2] yðvarri, er þèr ríðit norðr þangat? „Nei", sagði hann, Úfeigr; „eigi verðr yðr hann Oddr ráðlauss fyrir; ok svá mikla gnótt sem hann hefir til fjár, þá hefir hann þó eigi minni gæfu til vitsmunanna ok til ráðagörða, þegar hann þykkist þess við þurfa; ok þat grunar mik, at eigi skríði[3] at síðr knörrinn undir hánum um Íslandshaf, þó at þèr kallit hann

[1]) *Gisning overeensstemmende med samtlige Papirshaandskrifter istedenfor Membranens* mæt, *som ikke synes at give nogen Mening, og hvorved Verslinien bliver for kort.*

[2]) *Saaledes skrevet i Membranen, skjönt man havde ventet* geysan *(af* gaus, *Dat. af* gjósa); *men da Membranen er nöiagtig i Adskillelsen af* i *og* y, í *og* ý, *saa rækker Bogstaveringen Formodning om, at Ordet maa være af en anden Stamme.*

[3]) *Feilskrevet i Membranen* ſkrið.

sekjan. En þat má eigi sekt heita, er svá er rangliga upp tekit; ok mun á þá falla, er með fara; ok þess væntir mik, at hann muni nú í hafi með allt sitt, nema landit á Mel; þat ætlar hann yðr. Frètt hafði hann þat, at eigi var löng sjáfargata til Borgar, ef hann kæmi á Borgarfjörð. Nú mun þetta svá setjast, sem upp var hafit, at þèr munut fá af skömm ok svívirðing, ok gengr þó at makligleikum, ok þar með hvers manns ámæli". Þá sagði Egill: „Þetta mun vera dagsanna, ok eru nú brögð í málinu. Var þat miklu líkara, at Oddr mundi eigi sitja ráðlauss fyrir, ok mun ek eigi at þessu telja; því at eru þeir sumir í málinu, er ek[1] ann vel svívirðingar af, ok mest æsa málit, svá sem er Styrmir, eða Þórarinn ok Hermundr". Úfeigr mælti: „Þat mun fara sem betra er ok makligt[2], at þeir munu fá margs manns ámæli af þessu; en þat þykki mèr illa, er þú hefir eigi góðan hlut af; því at þú fellst mèr vel í geð, ok bezt af yðr bandamönnum". Lætr hann nú síga fèsjóð einn digran niðr undan kápunni. Egill brá til augum. Úfeigr finnr þat, kippir upp sem skjótast undir kápuna, ok mælti: „Á þá leið er, Egill!" segir hann, „at[3] mik væntir, at því nærr skal fara, sem ek hefi sagt þèr. Nú mun ek göra þèr sæmd nökkura"; vindr nú upp sjóðnum, ok steypir ór silfrinu í skikkjuskaut Egils. Þat váru tvau hundruð silfrs, þess er bezt kunni verða. „Þetta skaltu þiggja af mèr, ef þú gengr eigi í móti málinu; ok er þetta nökkurr sæmdarhlutr". Egill svarar: „Þat ætla ek, at þú sèr eigi meðal-

---

1) ek *er udeladt i Membranen, men her tilföiet som nödvendigt Tillæg overeensstemmende med de övrige Haandskrifter.*

2) *Rettelse ifölge 165 L istedenfor Membranens:* Þ mun þara fē betr e7 en Þ mun þara fē makligt e7. *554 a β og 4. add.:* þat mun fara sem makligt er ok betr.

3) at *er feilagtigen skrevet to Gange i Membranen.*

karl vándr. Er þèr engi þess ván, at ek[1] muna vilja rjúfa sœri mín". Úfeigr segir: „Eigi eru þèr þó slíkir, sem þèr þykkist; vilit heita höfðingjar, en kunnit yðr engan fögnuð, þegar þèr komit í nökkurn vanda. Nú skaltu eigi svá með fara, heldr mun ek hitta þat ráð, at þú munt halda sœri þín". „Hvert er þat?" sagði Egill. Úfeigr mælti: „Hafi þèr eigi svá mælt, at þèr skyldut hafa sektir eða sjálfdœmi?" Egill kvað svá vera. „Þat kann vera", sagði[2] Úfeigr, „at oss, frændum Odds, sè þess unnt, at kjósa, hvárt vera skal. Nú mætti svá til bera, at undir þik kæmi görðin; vil ek þá, at þú stillir henni". Egill svarar: „Satt segir þú, ok ertu slœgr karl ok vitr; en þó verð[3] ek eigi til þess búinn, ok hvárki hefi ek til mátt nè liðsafla, at standa einn í mót þessum höfðingjum öllum; því at fjandskapr mun fyrir koma, ef nökkurr ríss við". Úfeigr mælti: „Hversu mun, ef annarr kemr í málit með þèr?" „Þá mun nærr fara", sagði Egill. Úfeigr mælti: „Hvern viltu helzt til kjósa af bandamönnum? Láttu svá, sem ek eiga á öllum völ". „Tveir eru til", sagði Egill; „Hermundr er mèr næstr, ok er illa með okkr; en annarr er Gellir; ok hann mun ek til kjósa". „Þat er mikit til at vinna", segir Úfeigr; „því at öllum ynna ek ills hlutar af þessu máli, nema þèr einum; en hafa mun hann vit til þess, at sjá, hvárt betra er af at kjósa: at hafa fè ok sœmd, eða missa fjár ok taka við úvirðing. Eða viltu nú ganga í málit, ef undir þik kemr, til þess at minnka görðina?" „Þat ætla ek víst", sagði Egill. „Þá skal þetta vera fast með okkr", sagði Úfeigr; „því at ek mun koma hegat til þín af annarri stundu.

[1]) *Rettelse istedenfor Membranens feilskrevne* en.

[2]) sagði *er udeladt i Membranen, men her tilföiet som nödvendigt Tillæg ifolge 165 L; de övrige Haandskrifter have blot* s.

[3]) *I Membranen skrevet* v$^{7}_{\eth}$ı.

[1]Nú ferr Úfeigr í brott, ok skilja þeir Egill; reikar Úfeigr nú milli búðanna, ok er allhældreginn; er þó eigi svá dapr með sjálfum sèr, sem hann er hrumr at fótunum, ok eigi svá laustœkr í málunum, sem hann er lasmeyrr í göngunni. Um síðir kemr hann til búðar Gellis Þórðarsonar, ok lætr hann út kalla. Hann kemr út ok heilsar fyrr Úfeigi — því at hann var lítillátr, — ok spyrr, hvert erendi hans er. Úfeigr svarar: „Hingat varð mèr nú reikat". Gellir mælti: „Þú munt vilja tala um mál Odds". Úfeigr svarar: „Ekki vil ek þar um tala, ok segi ek mèr þat aflient, ok mun ek fá mèr aðra skemmtan". Gellir mælti: „Hvat viltu þá tala?" Úfeigr mælti: „Þat er mèr sagt, at þú sèr vitr maðr; en mèr er þat gaman, at tala við[2] vitra menn". Þá settust þeir niðr, ok taka tal sín í millum. Þá spyrr Úfeigr: „Hvat er ungra manna vestr þar í sveitum, þat er þèr þykki líkligt til mikilla höfðingja?" Gellir sagði, at góð völ váru þar á því, ok nefnir til sonu Snorra goða ok Eyrarmenn. „Svá er mèr sagt", kvað Úfeigr, „at vera muni; enda er ek nú vel til frèttar kominn, er ek tala við þann manninn, er bæði er sannorðr ok gegn. Eða hvat er kvenna þeirra vestr þar, er beztir kostir eru?" Hann nefnir til dœtr Snorra goða ok dœtr Steïndórs á Eyri. „Svá er mèr sagt", kvað Úfeigr; „eða hversu er? áttu eigi dœtr nökkurar?" Gellir kvaðst eiga víst. „Hví nefnir þú eigi þær?" sagði Úfeigr. „Engar munu fríðari, en þínar dœtr, ef at líkendum skal ráða; eða eru þær eigi giptar?" „Eigi", sagði hann. „Hví sætir þat?" sagði Úfeigr. Gellir segir: „Því at eigi hafa þeir til boðizt, at bæði sè stórauðgir ok hafi staðfestur

1) *Membranen har her en Overskrift, som er meget utydelig, men synes at være:* aꝼ .o. ſeſþ, *hvoraf det sidste Ord uden Tvivl er feilskrevet, og skal formodentlig være* Skíðasyni?

2) við *er udeladt i Membranen, men tilföiet som nodvendigt Tillæg overeensstemmende med Papirshaandskrifterne.*

góðar, kynríkir ok vel mannaðir sjálfir, en ek er þó ekki fèríkr[1], en þó mun ek mannvandr sakir kynferðis ok virðingar. En skal nú eigi spyrjast láta alls? Hvat er þeirra manna norðr þar, er vænir sè til höfðingja?" Úfeigr svarar: „Þar er gott mannval; tel ek þar fyrstan Einar, son Járnskeggja[2], ok Hall Styrmisson; mæla þat ok sumir menn, at Oddr son minn sè mannvænligr maðr; enda skal nú koma at[3] orðum þeim, er hann bauð mèr, at hann vildi mægjast við þik, ok fá dóttur þinnar, þeirrar er Ragnheiðr[4] heitir". „Já", sagði hann Gellir; „var þat, er því mundi vel svarat; en at svá búnu get ek, at þat frestist". „Hvat kemr til þess?" sagði Úfeigr. Gellir mælti: „Dimmu þykkir á draga ráðit Odds, sonar þíns, at svá búnu". Úfeigr svarar: „Ek segi þèr með sönnu, at aldri giptir þú hana betr, en svá; því at einmælt mun þat, at hann sè menntr sem sá, er bezt er; enda skortir hann eigi fè nè ætt góða, en þú ert mjök fèþurfi, ok mætti svá verða, at þèr yrði styrkr at hánum; því at maðrinn er stórlyndr við vini sína". Gellir segir: „Á þetta mundi litið, ef eigi stæði málaferli þessi yfir." Úfeigr svarar: „Gettu eigi vafurleysu þeirrar, er engis er verð, en þeim úsómi í ok öll fólska, er með fara". Gellir svarar: „Eigi er þat þó minni ván, er at öðru gefist, ok vil ek eigi þessu játa; en ef þetta mætti leysast, þá vilda ek þat gjarna". Úfeigr svarar: „Þat kann vera, Gellir! at þèr takit hèr allir fullsælu upp; en þó má ek segja þèr, hverr þinn hlutr mun af verða;

---

1) *I Membranen staaer blot* fe, *men den sidste Deel er ved Glemsomhed udeladt, da* fe *er kommet til at slutte den nederste Linie paa den sidste Spalte af Siden.* fèríkr *er optaget ifölge 163 o, 165 L og 554 a β. 455 og 4. add. have* fèsterkr; *140 og 493 have* fèmikill.

2) *Feilskrevet i Membranen* tarnkeggia.

3) at *er udeladt i Membranen og 455, men her optaget ifölge 165 L. 163 o har* í, *og 554 a β og 4. add. have* þar við.

4) *I Membranen skrevet* ragneiðr.

því at þat veit ek görla, ok mun þat at bezta[1] kosti, at þèr átta bandamenn hljótið hálft Melsland. Verðr þá þó eigi góðr þinn hluti: fær lítið af fènu, en hefir látið dáðina ok drengskapinn, at þú vart áðr kallaðr einnhverr beztr drengr á landinu". Gellir spurði, hví svá mætti verða. Úfeigr svarar: „Þat þykki mèr líkast[2], at Oddr sè nú í hafi með allt sitt, nema landit á Mel. Eigi var yðr þess ván, at hann mundi ráðlauss[3] fyrir, ok láta yðr kjósa ok deila yðvar í millum. Nei"[4], sagði hann Úfeigr, „heldr mælti hann hitt, ef hann kæmi á Breiðafjörð, at hann mundi finna bœ þinn, ok mætti þá kjósa sèr kvánföng ór þínum garði, en sagðist hafa nóg eldsvirki til at brenna bœ þinn, ef hann vildi. Svá ok, ef hann kæmi á Borgarfjörð, þá hafði hann frètt, at eigi var löng sjáfargata til Borgar. Gat hann ok, ef hann kæmi á Eyjafjörð, at hann mundi finna bœ Járnskeggja; slíkt hit sama ef hann kæmi í Austfjörðu, at hann mundi hitta byggð Skeggbrodda. Nú liggr hánum ekki á, þó at hann komi aldri til Íslands, en þèr munut hafa af þessu makligan hlut, en þat er skömm ok svívirðing. Nú þykki mèr þat illt, svá góðr höfðingi sem þú hefir verit, er þú hefir svá þungan hlut af, ok sperða ek þik til þess". Gellir svarar: „Þetta mun vera satt, ok tel ek lítt at, þó at nökkut undanbragð verði um fjárupptakit; lèt ek þetta leiðast eptir vinum mínum, meirr en mèr væri þetta svá staðfast í skapi". Úfeigr mælti: „Svá mun þèr lítast, þegar eigi er of mikit ras á þèr, at sá sè hlutinn virðuligri, at gipta Oddi, syni mínum, dóttur þína, sem ek sagða í fyrstu. Sè hèr fèit, er hann sendi þèr, ok kvaðst sjálfr

---

1) *I Membranen skrevet* bazta.

2) *Rettelse overeensstemmende med Haandskrifterne istendenfor Membranens* lika.

3) *I Membranen feilskrevet* rað raðlaus.

4) *I Membranen blot skrevet* ne.

mundu hana heiman göra; því at hann vissi vanefni þín, ok eru þetta tvau hundruð silfrs, þess er varla fær slíkt. Hyggðu nú at, hverr þèr býðr slíkan kost, at gipta slíkum manni dóttur þína, ok göri hann hana sjálfr heiman, ok þat líkast, at aldri sè forverkum gört við þik, en dóttir þín falli í fullsælu". Gellir svarar: „Mikit er þetta, svá at þat er torvirt; en þat vinn ek til engis, at svíkja þá, er mèr trúa; en sè ek, at ekki fæst af málinu, nema hróp ok háðung". Þá svarar Úfeigr: „Furðu hoskir[1] eru þèr höfðingjarnir. Hverr fýsti þik, at þú skyldir svíkja þá, er þèr trúðu, eða ganga á eiða þína? Hitt má vera, at svá beri til, at undir þik kæmi görðin, ok megir þú þá minnka, ok heldr þú þó sœri þín". Gellir sagði: „Satt er þetta, ok ertu mikill bragðakarl ok furðu slœgr; en þó má ek eigi einn ganga í fang þessum öllum". Úfeigr mælti: „Hversu mun þá, ef ek fæ til annan? viltu þá við hjálpa málinu?" „Þat vil ek", kvað Gellir, „ef þú kemr því við, at ek skyla[2] um mæla". Úfeigr mælti: „Hvern kýsstu til með þèr?" Gellir svarar: „Egil mun ek kjósa; hann er mèr næstr". Úfeigr svarar: „Heyr á endemi! kýss þann, sem vestr er af yðru liði, ok þykki mèr mikit fyrir, at fá hánum sœmdarhlut; ok veit ek eigi, hvárt ek vil þat til vinna". „Þú ræðr nú", kvað Gellir. Úfeigr mælti: „Viltu þá í ganga málit, ef ek kem hánum til með þèr; því at sjá mun hann kunna, hvárt betra er, at hafa nökkura sœmd eða enga". „Svá mikit sem mèr kaupist í", sagði Gellir, „þá ætla ek, at ek muna til hætta". Þá mælti Úfeigr: „Um höfu vit Egill talat áðr, ok sýnist hánum eigi torveldligt málit; ok er hann í kominn. Nú

---

1) *Optaget overeensstemmende med alle Papirshaandskrifterne istedenfor Membranens* þefkır. — 2) *Jfr. S.* 21[18].

mun ek gefa ráð til, hversu[1] með skal fara. Flokkar yðrir bandamanna eru mjök allir saman í göngu. Nú mun þat engi maðr gruna, þó at þit Egill talizt við, þá er þit gangit til aptansöngs, slíkt[2] er ykkr líkar". Gellir tekr við fènu, ok er þetta ráðit nú með þeim. Síðan ferr Úfeigr nú í brott, ok til búðar Egils, ok hvárki seint nè krókótt ok eigi bjúgr; segir nú Egli, hvar komit er. Líkar hánum nú vel. Eptir um kveldit ganga menn til aptansöngs, ok talast þeir, Egill ok Gellir, við, ok semja þetta í milli sín. Grunar þetta engi maðr.

[3]Nú er frá því sagt, at annan dag eptir ganga menn til lögbergs, ok var fjölmennt. Þeir, Egill ok Gellir, safna at sèr vinum sínum. Úfeigr safnaði ok með þeim, Styrmi ok Þórarni. Ok er menn váru komnir til lögbergs, þeir sem þagat var ván, þá kvaddi Úfeigr sèr hljóðs ok mælti: „Ek hefi verit úhlutdeilinn um mál Odds, sonar míns, hèr til, en þó veit ek, at nú eru þeir menn hèr, at mest hafa gengit at þessu máli; vil ek fyrst kveðja at þessu máli Hermund, þó at þetta hafi með meirum fádœmum upp hafit verit[4] en menn[5] viti dœmi til, ok svá fram farit, ok eigi úlíkligt, at með því endist. Nú vil ek þess spyrja, hvárt nökkur sætt skal koma fyrir málit". Hermundr svarar: „Ekki viljum[6] vèr taka, utan sjálfdœmi". Úfeigr mælti: „Til þess munu menn trautt vita dœmi, at einn maðr hafi selt átta mönnum sjálfdœmi á einu máli; en til þess eru dœmi, at einn maðr seli einum manni. Alls þó hefir þetta

---

1) *I Membranen feilskrevet* hveru.

2) *Rettelse overeensstemmende med de övrige Haandskrifter for Membranens* flik.

3) *Membranen har her Overskriften*: af flægðum ofeigſ.

4) verit *er udeladt i Membranen, men tilföiet som nödvendigt Tillæg ifölge 455, 554 a β og 4. add.*

5) m̅n̅ *er skrevet to Gange i Membranen.*

6) *Jfr. Side* $15^{15}$, $20^{2}$, $33^{3}$.

með meirum fádœmum gengit, heldr en hvert annarra, þá vil ek bjóða, at tveir göri af yðrum flokki". Hermundr svarar: „Því viljum vèr víst játa, ok hirðum eigi, hverir tveir göra". „Þá munu þèr unna mèr þess", sagði Úfeigr, „at ek hafa þá vegtyllu, at ek kjósa af yðr bandamönnum þá tvá, er ek vil". „Já, já", sagði Hermundr. Þá mælti Þórarinn: „Já þú nú því einu í dag, er þú iðrast eigi á morgin". „Eigi skal nú aptr mæla", sagði Hermundr. Nú leitar Úfeigr borgunarmanna, ok varð þat auðvelt; því at fjárstaðr þótti víss. Nú takast menn í hendr, ok handsala þeir fègjöld slík, sem þeir vilja gört hafa, er Úfeigr nefnir til; en bandamenn handsala niðrfall at[1] sökum. Nú er svá ætlat, at bandamenn skulu ganga upp á völlu með flokka sína. Flokkar þeirra, Gellis ok Egils, ganga báðir saman, setjast niðr í einn stað í hvirfing; en Úfeigr gengr í hringinn, litast um ok lyptir kápuhettinum, strýkr handleggina, ok stendr heldr keikari; hann titrar augunum, ok talaði síðan: „Þar sitr þú, Styrmir! ok mun mönnum þat undarligt þykkja, ef ek læt þik eigi koma í þat mál, er mik tekr henda; því at ek er í þingi með þèr, ok á ek þar til trausts at sjá, er þú ert, ok þú hefir margar góðar gjafar af mèr þegit, ok allar illu launat; hyggst mèr svá at, sem þú hafir um þenna hlut fyrstr manna fjandskap sýnt Oddi, syni mínum, ok valdit mest, er málit var upp tekit, ok vil ek þik frá taka. Þar sitr þú, Þórarinn!" sagði Úfeigr, „ok er víst, at eigi mun þat[2] hèr til bera, at eigi hafir þú vit til, at dœma um þetta mál; en þó hefir þú Oddi til úþurftar lagt í þessi grein, ok fyrstr manna með Styrmi tekit undir þetta mál; ok vil ek þik fyrir því

1) *Saaledes Membranen, 140, 455 og 493. De övrige Haandskrifter læse* á.

2) *Membranen tilföier urigtigen* $\frac{1}{e}$ (=elgi) *bag efter* þat, *der tyder paa, at Skriveren har haft en anden Sætning i Tankerne.*

frá kjósa. Þar sitr þú, Hermundr! mikill höfðingi, ok þat ætla ek, at þá mundi vel komit, þó at undir þik væri vikit málinu; en þó hefir engi maðr verit jafnæstr, síðan þetta hófst, ok þat lýst, at þú vildir úsómann lýsa[1]! Hefir þik ok ekki til dregit, nema úsómi ok ágirni; því at þik skortir eigi fè, ok kýs ek þik frá. Þar sitr þú, Járnskeggi! ok skortir þik eigi metnað til, at göra um málit, ok eigi mundi þèr illa þykkja, þó at undir þik kæmi þetta mál. Ok svá var metnaðr þinn mikill, at þú lèzt bera merki fyrir þèr á Vöðlaþingi, sem fyrir konungum, en þó skaltu eigi konungr yfir þessu máli vera, ok kýs ek þik frá". Nú litast Úfeigr um ok mælti: „Þar sitr þú, Skeggbroddi! En hvárt er þat satt, at Haraldr konungr Sigurðarson mælti þat, þá er þú vart með hánum, at hánum þætti þú bezt til konungs fallinn þeirra manna, er út hèr eru?" Broddi svaraði: „Opt talaði konungr vel til mín, en eigi er þat ráðit, at hánum þætti allt, sem hann talaði". Þá mælti Úfeigr: „Yfir öðru skaltu konungr, en þessu máli, ok kýs ek þik frá. Þar sitr þú, Gellir!" sagði Úfeigr, „ok hefir þik nè ekki[2] dregit til þessa máls, nema einsaman fègirni; ok er þat þó nökkur várkunn, er þú ert fèvani, en hefir mikit at ráði; nú veit ek eigi, þó at mèr þykki allir ills af verðir, nema nökkurr verði virðing af at hafa þessu máli; því at nú eru fáir eptir, en ek nenni eigi at kjósa þá til, er áðr hefi ek frá vísat; ok því kýs ek þik til, at þú hefir ekki áðr at ranglæti kenndr verit. Þar sitr þú,

---

1) *Saaledes Membranen, 165 L og 455. Da Afskrivererne af de övrige Haandskrifter ikke have forstaaet dette Ordspil, have de forvandsket Stedet paa flere forskjellige Maader.*

2) *Gisning; Membranafskriveren synes at have villet gjöre eet Ord af* nè ekki, *men derved er fremkommen en Skrivefeil, saa at der kommer til at staae* neckl, *saaledes at den sidste Deel af* n *kommer til at gaae over i* e. *De övrige Haandskrifter have blot* ekki,

Þorgeirr Halldóruson!" segir Úfeigr, „ok er þat sýnt, at þat mál hefir aldregi komit undir þik, er málskipti[1] liggja við; því at þú kannt eigi mál at meta, ok hefir eigi vit til, heldr en uxi eða asni, ok kýs ek þik frá." Þá litast Úfeigr um, ok varð staka á munni:

Illt er ýtum
elli at bíða;
tekr hún seggjum frá
sýn ok vizku.
Átta ek næsta völ
nýtra drengja;
nú er úlfshali
einn á króki;

„ok hefir mèr farit, sem varginum; þeir etast[2] þar til, er at halanum kemr, ok finna eigi fyrr. Ek hefi átt at velja um marga höfðingja, en nú er sá einn eptir, er öllum mun þykkja ills at ván, ok sannr er at því, at meiri er újafnaðarmaðr, en hverr annarra, ok eigi hirðir[3], hvat til fjárins vinnr, ef hann fær þá, heldr en áðr, ok er hánum þat várkunn, þó hann hafi hèr eigi verit hlutvandr um, er sá hefir margr í vafizt, er áðr var rèttlátr kallaðr, ok lagt niðr dáðina ok drengskapinn, en tekit upp ranglæti ok ágirni. Nú mun engum þat í hug koma, at ek muna þann til kjósa, er öllum er ills at ván; því at eigi mun annarr hittast slœgri í yðru liði; en þó mun þar nú niðr koma, er þó eru allir aðrir frá kjörnir". Egill mælti ok brosti við: „Nú mun enn sem optarr, at eigi mun virðing fyrir

1) *Saaledes Membranen. De övrige Haandskrifter have* málaskipti.

2) *Saaledes Membranen, 165 L, og 455; 554 a β og 4. add.:* eta; *140 og 493:* hafa etlzt, *og 163 o:* etjast.

3) *Membranen skriver* ꜵ (=eigi) *ogsaa bagefter* hirðir, *hvilket her er udeladt ifölge 140, 455, 493 og 4. add. Det förste udelader derimod 163o, 165 L og 54 a β.*

því hér niðr koma, at aðrir vildi þat, ok er þat til, Gellir! at vit standim upp ok gangim í brott, ok talim með okkr málit". Þeir göra nú svá, ganga í brott þaðan, ok setjast niðr. Þá mælti Gellir: „Hvat skulu vit hèr um tala?" Egill mælti: „Þat er mitt ráð, at göra litla fèsekt, ok veit ek eigi, hvat til annars kemr, er þó munu vit litla vinsæld af hljóta". „Mun eigi fullmikit, þó at vit görim þrettán aura úvandaðs fjár?" sagði Gellir; „því at málaefni eru með miklum rangendum upp tekin; ok er því betr, er þeir una verr við; en ekki em ek fúss at segja upp görðina; því at mik væntir þess, at illa muni[1] hugna". „Gör, hvárt er þú vill", sagði Egill; „seg upp sættina, eða sit fyrir svörum". „Þat kýs ek", sagði Gellir, „at segja upp". Nú ganga þeir á fund bandamanna. Þá mælti Hermundr: „Stöndum upp ok heyrum á úsómann!" Þá mælti Gellir: „Ekki munu vit síðarr vitrari, ok mun allt til eins koma, ok er þat görð okkur Egils, at göra oss til handa, bandamönnum, þrettán aura silfrs". Þá segir Hermundr: „Hvárt skildist mèr rètt? sagðir þú þrettán tigi aura silfrs? Egill svarar: „Eigi var þat, Hermundr! er[2] þú sætir nú á hlustinni, er þú stótt upp? Víst þrettán aura, ok þess fjár, er engum sè viðtækt úveslum; skal þetta gjaldast í skjaldaskriflum[3] ok baugabrotum, ok í öllu því úrífligast fæst til, ok þèr unit vest við". Þá mælti Hermundr: „Svikit hefir þú oss nú, Egill!" „Er svá?" segir Egill; „þykkist þú svikinn?" „Svikinn þykkjumst ek, ok hefir þú svikit mik". Egill svarar: „Þat þykki mèr vel, at ek svíkja þann, er engum trúir, ok eigi heldr sjálfum sèr, ok má ek finna

1) *Rettelse for Membranens feilskrevne* muna, *hvilken Feil sandsynligviis er foraarsaget ved det* a, *der slutter det foregaaende Ord.*

2) *Saaledes Membranen; 140, 165 L og 493 have:* at.

3) *Rettelse overeensstemmende med samtlige övrige Haandskrifter istedenfor Membranens* ſkıællðaſkırꝼlū.

sönnur á mínu máli um þetta. Þú falt fè þitt í svá mikilli þoku, at þú ætlaðir, þó at þèr skyti því í hug, at leita þess, at þú skyldir aldri finna". Hermundr svarar: „Þetta er sem annat, þat er þú lýgr, Egill! þat þú sagðir á vetri, er þú komt heim ofan þaðan, er ek hafða boðit þèr heim ór hrakbúinu um jól, ok vartu því feginn, sem ván var at; en er úti váru jólin, þá úgladdist þú, sem ván var, ok hugðir illt til, at fara heim í sultinn; en er ek fann þat, þá bauð ek þèr at vera þar[1] með annan mann, ok þáttu þat, ok vart feginn. En um várit eptir páska, er þú komt heim til Borgar, sagðir þú, er[2] dáit hefði fyrir mèr þrír tygir klaka-hrossa, ok hefði öll etin verit". Egill svarar: „Ekki ætla ek, at ofsögur[3] mætti segja frá vanhöldum þínum; en annathvárt ætla ek, at etin væri af þeim fá eða engi; en vita þat allir menn, at mik ok fólk mitt skortir aldri mat, þó at misjafnt sè fjárhagr minn hœgr; en þau ein eru kynni heima at þín, er þú þarft ekki at taka til orðs á". „Þat munda ek vilja", segir Hermundr, „at vit værim eigi báðir á þingi annat sumar". „Nú mun ek þat mæla", segir Egill, „er ek hugða at ek munda aldri tala, at þú lúk heill munni í sundr; því at þat var mèr spáð, at ek munda ellidauðr verða, en mèr þykkir því betr, er fyrr taka tröll við þèr". Þá mælti Styrmir: „Sá segir sannast frá þèr, Egill! er vest segir, ok þik kallar prettóttan". „Nú ferr vel at", sagði Egill; „þess betr þykki mèr, er þú lastar mik meirr, ok þú finnr fleiri sönnur á því[4], af því, at mèr var þat sagt, at þèr höfðut þat fyrir ölteiti, at þèr tókut yðr jafnaðarmenn, ok tóktu mik til jafnaðarmanns þèr. Nú er

---

1) *163 o, 455, 554 a β, 568 og 4. add. tilföie* um vetrinn.

2) *Saaledes Membranen; 165 L, 455, 554 a β, 568 og 4. add. have derimod* at.

3) *Saaledes Membranen; 163 o, 165 L, 455, 554 a β, 568 og 4. add. have derimod* ofsögum, *hvilket ogsaa er det sædvanligste.*

4) *Membranen indskyder her* ok, *som synes her ingen Mening at give.*

þat víst", sagði hann, „at þú hefir nökkur stórklœki með þèr, þau er eigi vita aðrir menn, ok mun þèr kunnigast um þinn hag. En þó er þat úlíkt með okkr: hvárrtveggi heitr öðrum liði, ok veiti ek þat, er ek má, ok spari ek ekki af, en þú rennr[1], þegar svartleggjur koma á lopt. Þat er ok satt, at ek á jafnan úhœgt í búi, ok spari ek við engan mann mat, en þú ert matsínkr, ok er þat til marks, at þú átt bolla þann, er Matsæll heitir, ok kemr engi sá til garðs, at viti, hvat í er, nema þú einn. Nú samir mèr, at hjón mín hafi þá hart, er eigi er til, en þeim samir verr at svelta hjón sín, er ekki skortir; ok hygg þú at, hverr sá er". Nú þagnar Styrmir. Þá stendr upp Þórarinn. Þá mælti Egill: „Þegi þú, Þórarinn! ok sezt niðr, ok legg eigi orð til; þeim brigzlum mun ek þèr bregða, er þèr mun betra þagat. En ekki þykki mèr þat hlœgiligt[2], þó at þeir sveinar hlæi at því, at þú sitir mjótt ok gnúir saman lærum þínum". Þórarinn svarar: „Hafa skal heil ráð, hvaðan sem koma"; sezt niðr ok þagnar. Þá mælti Þorgeirr: „Þat mega allir sjá, at görð þessi er úmerkilig ok heimsklig, at göra þrettán aura silfrs[3], ok eigi meira, fyrir svá mikit mál". „En ek hugða", segir Egill, „at þèr skyldi sjá görð þykkja merkilig, ok svá mun vera, ef þú hyggr at fyrir þèr; því at þat muntu muna á Rangárleið, at einn kotkarl markaði þrettán kúlur í höfði þèr, ok tóktu þar fyrir þrettán lambær, ok ætlaða ek, at þèr skyldi þessi minning allgóð þykkja". Þorgeirr þagnaði; en þeir, Skeggbroddi ok Járnskeggi, vildu engum orðum skipta við Egil. Þá mælti Úfeigr: „Nú vil ek kveða

---

1) *Membranen skriver* renr reñ. *Skjöndt Formen* renn *hyppig forekommer, saa har jeg dog optaget den anden, der er den sædvanligste og normale.*

2) *Rettelse overeensstemmende med Papirshaandskrifterne, istedenfor Membranens* hlæglıgt.

3) *Feilskrevet i Membranen* silfr.

yðr vísu eina, ok hafa þá fleiri at minnum þing þetta ok málalok þessi, er hèr eru orðin.

Flestr mun (áms ok austra
ek vátta þat sáttar)
málma runnr um minna
(mik gœlir þat) hœlast.
Gat ek höfðingjum hringa
hattar land, en sandi
æst í augun kastað,
úríkr vafit flíkum.

Egill svarar: „Vel máttu hœlast um þat, at engi einn maðr mun meirr hafa siglt á veðr jafnmörgum höfðingjum". Nú eptir þetta ganga menn heim til búða sinna. Þá mælti Gellir til Egils: „Þat vil ek, at vit sèm báðir saman við okkrum mönnum". Þeir göra nú svá. Nú eru dylgjur miklar, þat er eptir var þingsins, ok una bandamenn allilla við þessi málalok. En fè þetta vill engi hafa, ok rekst þat þar um völluna. Ríða menn nú heim af þinginu.

[1] Nú finnast þeir feðgar, ok var Oddr þá albúinn til hafs. Þá segir Úfeigr Oddi, at hann hefir selt þeim sjálfdœmi. Oddr svarar: „Skilstu manna armastr við mál"! Úfeigr segir: „Eigi er enn öllu skemmt, frændi!" Innir nú allan málavöxt, ok segir, at hánum er konu heitið. Þá þakkar hann hánum liðveizluna, ok þykkir hann langt hafa fylgt um fram þat, er hánum kom í hug at vera mætti; ok segir nú, at hann skal aldri skorta fè. „Nú skaltu fara", sagði Úfeigr, „sem þú hefir ætlat, en brullaup þitt skal vera á Mel, at sex vikum". Eptir þat skilja þeir feðgar með kærleikum, ok lætr Oddr út, ok gefr hánum byr norðr á Þorgeirsfjörð, ok liggja þar kaupmenn fyrir áðr. Nú tók af byr, ok

---

[1]) *Membranen har her som Overskrift:* aꝼ oðð oꝼeıgſ.ſ. (ꝼ *og* e *gaae over i hinandet*).

liggja þeir þar nökkurar nætr. Oddi þykkir seint byrja, ok gengr upp á eitt hátt fjall, ok sèr, at annat veðrfall er fyrir utan; ferr aptr til knarrarins, ok bað þá flytjast út ór firðinum. Austmenn spotta þá, ok kváðu seint mundu[1], at róa til Noregs. Oddr segir: „Hvat megi til vita[2], nema þèr bíðit vár hèr". Ok er þeir koma út ór firðinum, þá er þegar byrr hagstœðr; leggja þeir eigi segl, fyrr en í Orkneyjum. Oddr kaupir þar malt ok korn, dvelst þar nökkura hríð, ok býr skip sitt. Ok þegar hann er búinn, þá koma austanveðr, ok sigla þeir; gefr þeim allvel, ok koma á Þorgeirsfjörð, og váru kaupmenn þar fyrir. Siglir Oddr vestr fyrir landit ok kemr á Miðfjörð; hafði hann þá í brott verit sjau vikur. Er nú búizt til veizlu, ok skortir eigi góð tilföng og gnóg. Þar kemr ok mikit fjölmenni. Þar kom Gellir ok Egill, ok mart annat stórmenni. Ferr veizlan vel fram ok sköruliga; þóttust menn eigi betra brullaup þegit hafa hèr á landi. Ok er veizluna þraut, þá eru menn út leiddir með stórgjöfum, ok var þar mest fè fram lagit, er Gellir átti í hlut. Þá mælti Gellir við Odd: „Þat vilda ek, at við Egil væri vel gört; því at hann er þess makligr". „Svá þykki mèr", sagði Oddr, „sem faðir minn hafi gört vel við hann áðr". „Bœttu þó um", segir Gellir. Ríðr Gellir nú í brott, ok hans fólk. Egill ríðr í brott, ok leiðir Oddr hann á götu, ok þakkar hánum liðveizlu, „ok mun ek eigi svá vel göra til þín, sem vera ætti; en reka lèt ek í gær[3], suðr til Borgar, sex tygi geldinga ok yxn tvau; mun þat heima þín bíða, ok skal aldri forverkum

[1]) *455, 554 aβ, 568 og 4. add. tilföie* veita.

[2]) *Saaledes Membranen, 455, 568 og 4. add. 163 o har:* Hvat megi þèr til vita; *165 L:* Hverr veit, *og 554 aβ:* Hvat má vita; *men disse Læsemaader ere opstaaede derved, at Afskriverne ikke have forstaaet, at* megi, *3. Person i Nut. af betingende Maade, kunde være rigtig, men saadanne Sætninger forekomme dog, især i Poesi.*

[3]) *I Membranen skrevet* gier.

við þik göra, meðan vit lifum báðir". Nú skiljast þeir, ok líkar Egli stórvel, ok binda sitt vinfengi; ferr Egill heim til Borgar.

[1]Þetta haust hit sama, safnar Hermundr liði, ok ferr út til Hvammsleiðar, ok ætlar til Borgar, at brenna Egil inni. Ok er þeir koma út með Valfelli, þá heyra þeir, sem strengr gjalli upp í fellit, ok því næst kennir Hermundr sèr sóttar ok stinga undir höndina; ok verða þeir at víkja aptr ferðinni, ok ęlnar hánum[2] sóttin. Ok er þeir koma fyrir Þorgautstaði, þá verðr at hefja hann af baki; er þá farit eptir presti í Síðumúla. Ok er hann kemr, þá mátti Hermundr ekki mæla, ok var prestr þar hjá hánum. Ok einn tíma, er prestr lýtr at hánum, þá lætr í vörrunum: „Tvau hundruð í gili, tvau hundruð í gili", ok síðan andast hann, ok lauk svá hans æfi, sem hèr er nú sagt. Oddr sitr nú í búi sínu með mikilli rausn, ok unir vel konu sinni. Alla þessa stund spyrst ekki til Úspaks. Sá maðr fèkk Svölu, er Már[3] hèt, ok var Hildisson, ok rèðst til bús á Svölustaði. Bjálfi hèt bróðir hans, hálfafglapi[4], ok rammr at afli. Bergþórr hèt maðr, er bjó í Böðvarshólum. Hann hafði reift málit, þá er Úspakr var sekr görr. Svá bar til eitt kveld í Böðvarshólum, þá er menn sátu við elda, at þar kom maðr ok drap á dyrr, ok bað bónda út ganga. Bóndi verðr þess varr, at Úspakr er þar kominn, ok

---

1) *Membranen har her som Overskrift:* dauþı ħermundar.

2) *Gisning overeensstemmende med de övrige Haandskrifter for Membranens* ħ, *som ikke kan læses anderledes end* hann *efter Membranens Skrivemaade, og altsaa maa være Skrivefeil for* ħm *eller* ħ̄, *som Membr. ellers skriver Hensynsformen af* hann.

3) *I Membranen er dette Ord paa dette Sted skrevet* maR, *hvilket er en sildigere Form, og som jeg derfor har forandret ved at sætte et enkelt* r *istedetfor det dobbelte, da Membranen senere skriver Gjenstandsformen* ma *og Hensynsformen i den paafölgende Vise* mavi,

4) *I Membranen skrevet* ħalf abglapı.

sagðist eigi mundu út ganga. Úspakr eggjar hann mjök út at ganga, en hann ferr eigi því heldr út, ok bannar öllum mönnum út at ganga, ok skilr svá með þeim. En um morgininn, er konur koma í fjós, þá eru þar særðar níu kýr til bana. Þetta frèttist víða. Ok enn er fram líða stundir, berr svá til, at maðr gengr inn á Svölustöðum, ok í hús þat, er Már[1] hvílir í. Þat var snemma um morgin. Sá maðr gengr at sænginni, ok leggr Má með saxi, svá at þegar gekk á hol. Þetta var Úspakr. Hann kvað vísu:

Brá ek ór slíðrum
skálm nýbrýndri;
þeirri lèt ek Mávi
á maga hvatað.
Unna ek eigi
arfa Hildis
fagrvaxinnar
faðmlags Svölu.

Ok í því, er hann snýr til dyranna, hleypr hann upp, Bjálfi, ok rekr á hánum tálguknif. Úspakr gengr til þess bœjar, er heitir á Borgarhóli, ok lýsir þar víginu; ferr síðan á brott, ok spyrst nú ekki til hans um hríð. Víg Más[2] frèttist víða, ok mæltist illa fyrir. Þat bar til nýlundu, at stóðhross hin beztu, er Oddr átti, fimm saman, fundust dauð öll, ok ætluðu menn Úspaki þat verk. Nú er þat langa hríð, at ekki spyrst til Úspaks. Ok um haustið, at menn gengu at geldingum, fundu þeir helli í hömrum nökkurum, ok þar í mann dauðan, ok stóð hjá hánum mundlaug full af blóði, ok var þat svá svart, sem tjara. Þar var Úspakr, ok hugðu menn, at sárit mundi hafa grandat hánum, þat er Bjálfi veitti hánum, enda farit síðan af

1) *Jfr. Side 41, Anmærkn. 3.*
2) *I Membranen skrevet* marf.

bjargleysi. Ok lauk svá hans æfi. Ekki er þess getið, at eptirmál yrði um víg Más,[1] nè um víg Úspaks. Oddr býr á Mel til elli, ok þótti hinn mesti ágætismaðr. Eru Miðfirðingar frá hánum komnir, Snorri Kálfsson, ok mart annat stórmenni. Jafnan síðan hèlzt vinátta þeirra feðga með góðri frændsemi. Ok lýkr þar þessi sögu.

---

1) *I Membranen skrevet* marſ.



# ORDSAMLING.

## A.

aðrir *Fl. til* annarr.

afburðarmikill (*To.*), *udmærket:* allr hans vöxtr er afburðarmikill *hans hele Væxt er overordentlig.*

afl (*No.*), *Styrke:* at yðr verði þat ekki um afl *at det overstiger ikke eders Kræfter.*

afla (*Gjo.*), *egentl. avle:* afla fjár (kaupeyris), *anskaffe sig Formue* (*Vare*).

albúinn (*To.*), *færdig.*

aldr (*No.*), *Ha.*, *Alderdom.*

allhældreginn (*To.*), *som gaaer paa Hælene, som gaaer langsomt.*

allkátr (*To.*), *meget glad, meget lystig.*

alls (*en forstærkende Partikel*) 32.26.



allvandr (*To.*), *meget vanskelig.*

almæltr (*Tf.*), *som omtales af alle, bekjendt.*

alvara (*No.*), *Ha.*, *Alvor.*

andast (*Gjo.*), *döe.*

andlit (*No.*), *I.*, *Ansigt.*

andsvar (*No.*), *I.*, *Svar:* viltu nökkur andsvör veita þessu máli *vil du give noget Svar i denne Sag.*

annarr (*Sto.*), *anden; den anden i Rækken:* annat sumar *næste Sommer*, 37.

annast (*Gjo.*), *bære Omsorg for, have Opsyn over:* annast um búit *bestyre Gaarden.*

aptansöngr (*No.*), *Ha.*, *Aftensang.*

armr (*To.*), *arm, ussel.*
arfi (*No.*), *Ha.*, *egentl. Arving,* (*poetisk*) *Sön 42.*
asni (*No.*), *Ha.*, *Äsel.*
at (*Fho.*): at sex vikum *efter 6 Ugers Forlöb.*
athöfn (*No.*), *Hu.*, *Forretning:* þar kemr enn, at hánum leiddist sjá athöfn, *Enden bliver, at han bliver kjed af denne Forretning.*
atrekandi (*No.*), *Ha.*, *Iver:* svá mikill atrekandi var görr um leitina *man sögte* (*efter Faarene*) *med saadan Iver.*
auðr (*No.*), *Ha.*, *Rigdom.*
auðvelt (*Bo.*), *let.*
auka, eyk, jók, aukit (*Gjo.*), *öge, foröge:* eigi mun þat aukit (= orðum aukit) *man overdriver det ikke.*
austan (*Bo.*), *fra Öst.*
austanveðr (*No.*), *I.*, *östlig Vind.*

## Ö.

ölteiti (*No.*), *Hu.*, *Lystighed ved Drikkelag:* at þèr höfðut þat fyrir ölteiti, *at I gjorde det, for at more eder ved Drikkebordet.*

## Á.

ábyrgðarhlutr (*No.*), *Ha.*, *Ansvar.*
áfelli (*No.*), *I.*, *Skyld:* nú vil ek at þú snúir eigi svá skjótt málinu til áfellis hánum *giver ham Skylden for denne Sag.*
ágirni (*No.*), *Hu.*, *Gjerrighed.*
áhöfn (*No.*), *Hu.*, *egentl. det som man haver paa Skibet, Ladning.*
áhyggjumikill (*To.*), *tungsindig.*
ámæli (*No.*), *I.*, *ugunstig Omtale:* þèr munut fá..... hvers manns ámæli *I ville af alle blive slet omtalte.*
ásjá (*No.*), *Hu.*, *Beskyttelse.*
ásjámál (*No.*), *I.*, *en Sag, som man skal see paa, som der kunde forsvares:* sýnist mèr ásjámál vera *jeg synes det er en Sag som kan forsvares.*
ást (*No.*), *Hu.*, *Kjærlighed:* ekki hafði hann mikla ást af föður sínum *han var*

*ikke synderlig afholdt af sin Fader.*

átta (*Talord*), *otte.*

Æ.

æfi (*No.*), *Hu.*, *Levetid*: lauk svá hans æfi *saaledes blev hans Endeligt*, *saaledes döde han.*

æsa (*Gjo.*), *ophidse:* er mest æsa málit *som ere de hidsigste i denne Sag.*

ætla (*Gjo.*), *1*) *ville*, *have i Sinde:* at hann ætlar utan um sumarit *at han har i Sinde*, *at reise til Udlandet i Sommeren.* 2) *tænke*: ok ætlaða ek *og tænkte jeg.* 3) ætla e-m e-t *have en mistænkt for noget:* ok ætluðu menn Úspaki þat verk.

ætlandi (*Tf. brugt som To.*), *som kan tænkes*, *rimelig.*

ætt (*No.*), *Hu.*, *Slægt*, *Byrd:* ok er þeir vissu ætt hans góða *og da de vidste*, *at han var af en god Familie.*

ættborinn (*Tf.*), *födt*, *baaren til noget ved sin Slægt*: svá sem þú ert ættborinn til *lige som din övrige Slægt.*

ættstórr (*To.*), *af höi Byrd*, *af berömt Slægt.*

B.

bandamenn (*No*), *Ha.*, *Forbundne.*

banna (*Gjo.*), *forbyde*: ok bannar öllum mönnum út at ganga *og forbyder alle sine Folk at gaae ud.*

baugabrot (*No.*), *I.*, *sönderslaaede Ringe*, *Stykker af Ringe.*

báðir (*To.*, *uden Et.*), *begge.*

beiða, beiði, beidda, beitt (*Gjo.*), *begjære*, *forlange:* beiði ek þik ekki gjafar at *jeg forlanger ikke*, *at du skal gjöre det uden Betaling.*

bein (*No.*), *I.*, *Been:* stór bein í andliti *egentl. store Knokler i Ansigtet*, *ɔ: stærkt marquerede Ansigtstræk.*

beinleiki (*No.*), *Ha.*, *Gjestfrihed:* hánum var veittr beinleiki *han blev modtaget med Gjestfrihed.*

bera, ber, bar, borit (*Gjo.*), 1) bera til *skee:* Svá bar

til um haustit *det hændte sig om Efteraaret.* — 2) bera undan (sökum) *frikjende for (Anklage)*: þú mundir hann gjarnan undan bera *du vilde gjerne bevise hans Uskyldighed.* — Eigi mun þetta af þèr bera *du vil ikke kunne frigjöre dig fra denne Beskyldning.* — 3) bera e-t upp *fremkomme med noget, fremsige noget*: þó ætla ek, at þú berir nú eigi satt upp fyrir mik *dog tænker jeg, at du nu ikke siger mig Sandheden.* — 4). bera traust á (*ogsaa* til) *vove:* ok enginn muni traust á bera *og at ingen vil blive saa dristig.* — 5) bera fè í dóm *bestikke Dommerne 20.*[8]

bíða, bíð, beið, beðit (*Gjo. med Ei.*), *vente*: Íllt er ýtum elli at bíða *det er slemt at vente paa Alderdommen, ɔ: at blive gammel.* — Ef yðr bítr (*for* bíðr, ð *gaaet over til* t) við at horfa *hvis det falder eder ind.*

bíta, bít, beit, bitit (*Gjo.*), *egentl. bide; være tilstrækkelig, være nok:* ok sú mun bíta *den vil være tilstrækkelig.* — Ek hugða, at hann mætti bíta sökin *jeg tænkte, at han kunde blive overbeviist.*

bjargleysi (*No.*), *I.*, *Mangel paa Födemidler.*

björg (*No.*), *Hu.*, *Hjelp.*

bjóða, býð, bauð, boðit (*Gjo.*), *tilbyde:* býðr Oddr hánum heima at vera *Odd tilbyder ham at blive hos sig;* (*ogsaa i Rettergangen*: bjóða til varnar, *naar Sagsögeren opfordrer den Sagsögte eller hans Defensor til at begynde sit Forsvar*), ok er nú boðit til varnar. — 2) bjóða e-m um mál sitt, *overdrage sin Sag til een, skaffe sig en Sagförer:* Oddr hefir engum manni um mál sitt boðit, *Odd har ikke overdraget sin Sag til nogen.*

